# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)


## Sumarbúðir

Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins 1978 verða haldnar á tveimur stöðum á landinu um verslunarmannahelgina, þ.e. 5. - 7. ágúst n.k. Með þessu tölublaði fylgir sérstakt rit helgað sumarbúðunum. Hefur það bæði að geyma praktískar upplýsingar, sem og greinar um sumarbúðirnar og þau efni sem þar verða tekin til umræðu.

# SKILUM AUÐU!

Um hvað snúast komandi þingkosningar? Hverjir eru valkostirnir?

Verkalýðssinnar og aðrir baráttusinnar hafa um tvennt að velja – að styðja einhvern þeirra sem bjóða fram, – eða skila auðu. Hvað innifelur hvor þessi kostur fyrir sig?

Að skila auðu merkir:
- að taka afstöðu gegn borgaralegu þingræði,
- að taka afstöðu gegn arðránsskipulaginu,
- að taka afstöðu gegn öllum auðvaldsflokkunum,
- að taka afstöðu gegn skemmdaverkamönnum í verkalýðshreyfingunni,
- að taka afstöðu gegn hentistefnumönnum og falssósíalistum,
- að styðja baráttustefnu meðal verkalýðs og vinnandi alþýðu,
- að styðja baráttuna fyrir bættum kjörum,
- að styðja baráttuna fyrir sósíalísku Íslandi.

Að styðja einhvern þeirra sem býður fram merkir:
- að styðja óbreytt arðrán, aukið arðrán eða breytt arðrán,
- að styðja skrípaleik þann sem framboðsaðilar kalla lýðræði og þingræði,
- að taka afstöðu gegn baráttustefnu,
- að taka afstöðu gegn sósíalisma.

Að styðja A-lista merkir:
- að styðja útþynnta stefnu hagræðingar á borgaralegu þjóðskipulagi,
- að taka afstöðu gegn sósíalisma og verkalýðsbaráttu.

Að styðja B-lista merkir:
- að styðja einokunarauðvald Sambandsins og megnasta afturhald á Íslandi,
- að taka afstöðu gegn baráttu bænda fyrir bættum kjörum.

Að styðja D-lista merkir:
- að styðja íslenskt auðvald og heimsvaldastefnu Bandaríkjanna og NATO,
- að taka afstöðu gegn kjarabótum og andheimsvaldabaráttu.

Að styðja F-lista merkir:
- að styðja borgaralega frjálshyggju og samtryggingu borgaralegra flokka,
- að taka afstöðu gegn verkalýðsbaráttu.

Að styðja G-lista merkir:
- að styðja afbakanir og falsanir á marxismanum og sósíalískri stefnu,
- að styðja heimsvaldastefnu Sovétríkjanna,
- að taka afstöðu gegn völdum verkalýðs yfir framleiðslunni,
- að taka afstöðu með stéttasamvinnu og svikum verkalýðsforystunnar.

Að styðja K-lista merkir:
- að styðja einangraða smáklíku sem staðið hefur að skemmdarverkum í verkalýðsbaráttunni.

## Barátta verkafólks í Hafnarfirði:

# Mikilvægt fordæmi

Samstaða og baráttuþrek verkafólksins í Bæjarútgerð Hafnarfjarðar (BÚH) er hvatning öllu öðru verkafólki og dæmi um það að barátta á vinnustöðunum sjálfum er árangursrík, sé rétt að henni staðið. Kröfur verkafólksins hafa hlotið stuðning félaga og einstaklinga víðs vegar um landið, efnalegan og siðferðilegan. Meira að segja bæjarfulltrúar Alþýðubandalags og Alþýðuflokks í Hafnarfirði hafa ekki komist hjá því að taka undir kröfur verkafólksins.

Um hvað snýst BÚH-málið raunverulega? Af fjölmiðlum hefur mátt skilja að orsökin fyrir ófrávíkjanlegum kröfum verkafólks um brottrekstur tveggja verkstjóra stafi af ákvörðun þeirra að færa einn starfsmann til í vinnslusal. Morgunblaðið hefur m.a. verið iðið við að draga upp þessa mynd af málum, til að gera baráttu verkafólks tortryggilega. En umrætt atvik fyllti aðeins mælinn hjá verkafólkinu. Síðustu mánuði hefur stjórn BÚH staðið að margs konar tilfæringum á vinnustaðnum "til hagræðingar". Markmiðið er þetta sama gamla: Að auka gróðann af vinnu fólksins. Verkstjórarnir umræddu hafa haft það hlutverk að gera raunverulegar hugmyndir auðherranna um tilfæringar og "hagræðingu". Verkstjórarnir hafa hins vegar orðið uppvísir að því að beita óvenjulegum fruntaskap og ósvífni gagnvart verkafólki, og þeir hafa á stundum lagt sig eftir því að niðurlægja og lítilsvirða gamalreynt verkafólk. Krafan um tafarlausan brottrekstur verkstjóranna varð því smám saman almenn krafa verkafólksins og sú krafa er fyllega réttmæt og hana ber að styðja.

Reynt hefur verið að brjóta samstöðu fólksins á bak aftur, bæði af meirihluta bæjarstjórnar, stjórn BÚH og örfáum stuðningsmönnum sjónarmiða hennar meðal verkafólksins sjálfs. En allur þorri fólksins stendur að baki kröfunum – og fjölmargir út um land allt að auki. Starfsmenn í verksmiðjum Kaupfélags Árnesinga á Selfossi sýndu glæsilegt fordæmi og stéttarvitund með því að senda BÚH-fólkinu kr. 350 þús. til stuðnings. Förum að dæmi þeirra og leggjum fram peninga í verkfallssjóð. Hægt er að senda framlög til verkalýðsfélaganna í Hafnarfirði, en einnig tekur Verkalýðsblaðið við framlögum.

Vbl. sendir stuðnings- og baráttukveðjur til verkafólksins í Bæjarútgerð Hafnarfjarðar.

# Síonistahátíð

**29. maí héldu vinir Ísraels og síonismans "hátíðarsamkomu" í** Tjarnarbúð. Tilefnið var 30 ára afmæli Ísraelsríkis, 30 ár síonismans í framkvæmd. David Z. Rivlin, sendiherra Ísraels á Íslandi (með aðsetri í Osló) kom til landsins og flutti eldheita hyllingarræðu um síonismann og hryðjuverk Ísraelsmanna gagnvart palestínskri alþýðu. Daginn eftir bauð hann til kokkteilveislu á Hótel Sögu. Þangað komu embættismenn, stjórnmálamenn og félagar í "Ísland-Ísrael" – nýstofnuðu vináttufélagi við Ísrael. Fyrir utan hótelið stóðu vinir palestínsku þjóðarinnar úr íslensku Palestínunefndinni og mótmæltu stefnu Ísraels. Sjá nánar um mótmælastöðuna í blaðinu bls. 6.

Hér á myndinni sjást sendiherrann (lengst til hægri), við hlið hans er Óli Tynes, einn ákafasti og dyggasti stuðningsmaður síonismans á Íslandi. Óli er formaður vináttufélagsins við Ísrael. Verkalýðsblaðið hvetur til baráttu gegn síonismanum á Íslandi og hvetur félaga í "Ísland-Ísrael" til að hætta stuðningi við síonismann og ganga úr félaginu.


**Viðtal við Arnþór Helgason, formann KÍM -bls 6**


## Akureyri

# Aðgerðir í Slippstöðinni

Þegar ný lög ríkisstjórnarinnar um kaup og kjör voru kunngerð, var fljótt mál manna í Slippstöðinni á Akureyri að taka ekki atlögunni mótþróalaust. Í vélvirkjadeild var samþykkt samhljóða að hefja yfirvinnustöðvun – og vinna ekki yfirvinnu fyrir smánarborgun. Skipti þá engu þegar ASÍ-forystan ákvað að hafast ekkert að fyrr en 10. júní, (eftir að þetta er skrifað hætti ASÍ-forystan m.a.s. við að hreyfa sig 10. júní !). 1. júní hættu allir vélvirkjar, auk helmings plötusmiða og rafsuðumanna á nýsmíðadeildum kl. 15.30. Var þá stöðin að mestu lömuð. Daginn eftir stóðu trúnaðarmenn málmiðnaðarmanna fyrir starfsmannafundi í kaffitíma. Var þá kominn Hákon Hákonarson, form. Sveinafélags járniðnaðarmanna, til að "útskýra kaupbreytingarnar" að því er sagt var. Eyddi hann stuttu máli í útskýringarnar, en en lýsti því hins vegar yfir að hækkun dagvinnukaupsins væri miklu meiri en hann hefði gert sér grein fyrir! Mesta áherslu lagði hann þó á að aðgerðirnar í Slippstöðinni hefði ekki nokkurn tilgang og myndi engu breyta.

Ýmsir urðu til að mótmæla, og töldu að einarðar aðgerðir á jafn stórum vinnustað og Slippstöðinni myndu virka sem þrýstingur á atvinnurekendur og lina samninganefnd ASÍ. Varð af þessu talsvert orðaskak, en að því kom að trúnaðarmenn leystu upp fundinn með þeim ummælum að hver yrði að gera upp við sig framhaldið. Þar sem engin samþykkt var gerð og ljóst að samstaðan var glötun, veiktist aðgerðin mjög. Fáir mættu til yfirvinnu laugard. 3. júní og mánudaginn 5. júní komu fáir til vinnu eftir að dagvinnutíma lauk.

Þess má svo geta, að 40 manna fundur iðnnema samþykkti áskorun um að halda aðgerðum áfram.

Ljóst er að aðgerðir á vinnustöðum eiga mjög vaxandi fylgi að fagna og er það ASÍ-foringjunum mikill þyrnir í augum. Þá vakti Hákon Hákonarson í hlutverki smala fyrir atvinnurekendur litla hrifningu "Slippara".

Fréttaritari á Akureyri.

# Sendinefnd til Kína

Vináttustofnun Alþýðulýðveldisins Kína hefur boðið EIK(m-l) að senda fjögurra manna sendinefnd til Kína og lagði nefndin upp í ferðina í byrjun júní. Hér er ekki um að ræða boð Kommúnistaflokks Kína til samtakanna í tilefni flokkssamskipta, enda eru þau tengsl ekki komin á að svo komnu máli. Tilefni ferðarinnar er hins vegar stuðningur EIK(m-l) og Verkalýðsblaðsins við uppbyggingu sósíalismans í Kína og markmiðið því að kynnast gagnkvæmt og efla vináttutengsl milli beggja aðila.

EIK(m-l) fagna þessu boði.

Í sendinefnd EIK(m-l) eru m.a. Sumarliði Ísleifsson, varaformaður samtakanna og Albert Einarsson, ritstjóri Vbl.

Sendinefndin mun ferðast víða um Kína og kynna sér ýmsa þætti kínversks þjóðlífs og stjórnmála. Verkalýðsblaðið mun birta fréttir og frásagnir um ferðina síðar.

Svonefndur "Kommúnistaflokkur Íslands" mun hafa fengið sams konar boð á sömu forsendum og er hópur félaga hans nýkominn heim frá Kína.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista).




# AUÐUR SEÐILL ER AFSTAÐA

Alþingiskosningar fara fram að fáum dögum liðnum. Félagar og stuðningsmenn EIK(m-l) verða að nýta tímann sem eftir er vel og starfa markvisst. Samtökin bjóða hvergi fram, en taka engu að síður fullan þátt í kosningabaráttunni. Þau hvetja kjósendur til að greiða atkvæði gegn auðvaldsskipulaginu með því að skila auðum kjörseðli.

Vaxandi fylgi borgaralegu verkalýðsflokkanna, Alþýðuflokks og Alþýðubandalags, í sveitarstjórnakosningunum þýðir fyrir kommúnista að leggja verður meira starf af mörkun í afhjúpun á starfi og stefnu þeirra og annarra. Atkvæðaaukning Alþýðuflokks og Alþýðubandalags 28. maí sýndi að verkafólk "veðjar á skársta kostinn" fremur en að skila auðu. Þetta gerist þrátt fyrir það, að fleiri og fleiri sjái í gegn um lygavef allra borgaralegu stjórnmálaflokkanna: Þeir eru ósammála um minniháttar atriði í rekstri auðvaldsþjóðfélagsins, en sammála um viðhald og vöxt arðránsskipulagsins. Það er kjarni málsins.

EIK(m-l) lögðu ekki mikla áherslu á starf fyrir sveitarstjórnakosningarnar, en hvöttu kjósendur almennt til að skila auðu. Þess voru þó dæmi að kjósendur væru ekki hvattir til að skila auðu í kosningum. Afstaða samtakanna var ekki nægilega ljós í Verkalýðsblaðinu og öðrum málgögnum samtakanna. Til dæmis var allt of lítið skrifað um borgarstjórnarkosningarnar í Rvík. EIK(m-l) telja það villu að setja ekki skýrar fram afstöðu sína.

Auðum seðlum fjölgaði talsvert í kosningunum, sérstaklega á Akureyri, þar sem yfir 90 manns skiluðu auðum seðli. Fjölgun auðra seðla má að hluta til þakka starfi EIK(m-l) og að hluta til almennri óánægju og vantrú kjósenda á borgaralegu flokkunum og þjóðskipulaginu. En nú þarf að herða róðurinn og fjölga enn auðum seðlum. Líklegt er að Alþýðuflokkur og Alþýðubandalag haldi í aðalatriðum fylginu frá 28. maí í kosningunum 25. júní. Horfur á nýrri "vinstri" stjórn með Framsókn/Sambandinu eru þar með vaxandi. "Vinstri" stjórn breytir engu um arðrán og undirokun á alþýðu. Alþýðubandalagsforystan hvorki getur né vill hrófla við auðvaldsskipulaginu, sem hún tekur fullan þátt í að stjórna. Svik hennar verður að afhjúpa betur. Leggja ber þunga áherslu á það í kosningabaráttunni, að atkvæði greidd einhverjum borgaralegu flokkanna eru um leið stuðningsyfirlýsing við arðránsskipulagið á Íslandi.

Tökum þátt í kosningunum: SKILUM AUÐU!

# Skilum auðu

Frh. af forsíðu

áttu og andheimsvaldabaráttu,
- að styðja grófa endurskoðun á marx-lenínismanum/kenningum Maós Tsetungs.

Að styðja R-lista merkir:
- að styðja kreddusinnaða áhangendur landráðamannsins Trotskýs
- að taka afstöðu gegn þjóðlegri baráttu fyrir sjálfræði Íslands,
- að taka afstöðu gegn frelsisbaráttu kúgaðra þjóða í Afríku gegn heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og Bandaríkjanna,
- að taka eindregna afstöðu með ásælni og yfirgangi Sovétríkjanna hvar sem er.

- Að styðja S-lista merkir:
- að styðja fasísku tilhneigingarnar innan íslenskrar borgarastéttar,
- að taka afstöðu gegn lýðréttindum og sjálfstæði ísl. þjóðarinnar.

Að styðja "óháð framboð" á Reykjanesi, Suðurlandi og á Vestfjörðum merkir:
- að styðja upplausnartilhneigingar innan borgaralegu stjórnmálaflokkanna, sem stafa af vaxandi efnahagslegri og pólitískri kreppu í þjóðfélaginu.

Félagar, baráttusinnar: er um nema eitt að ræða? Getum við nokkuð annað gert en skilað auðu 25. júní?



# Athugasemd

Í síðasta blaði birti blaðið úrdrátt úr ræðum þriggja ræðumanna Samfylkingar 1. maí í Reykjavík og á Akureyri. Einn ræðumaðurinn var Björn Harðarson, háskólanemi. Ræða hans var birt í síðasta blaði, en þau mistök voru gerð að fá ekki leyfi höfundar fyrir birtingunni. Slík vinnubrögð eru slæm og biður ritnefnd velvirðingar á mistökunum.

# Fundur AKP(m-l) og EIK(m-l)

Fyrir skömmu áttu Kommúnistaflokkur Verkamanna(marx-lenínista) - AKP(m-l) í Noregi og EIK(m-l) með sér fund og segir m.a. í yfirlýsingu hans:

"Á fundinum var m.a. rætt um þróun stéttabaráttunnar í Noregi og á Íslandi, alþjóðastöðuna og vaxandi styrjaldarhættu.

Fundurinn sannaði að EIK(m-l) og AKP(m-l) eru einhuga í grundvallaratriðum, m.a. um afstöðuna til risaveldanna tveggja og hina vaxandi stríðshættu. Það er sérstaklega risaveldið Sovétríkin sem er í sókn, sé litið á tvo hættulegustu andstæðinga alþýðu heimsins (Bandaríkin og Sovétríkin, innskot Vbl.). Sovétríkin verða æ árásargjarnari með tímanum.

EIK(m-l) og AKP(m-l) eru ennfremur sammála um að kenning Maós Tsetungs um skiptingu heimsins í þrjá heima er mikilvæg og rétt leiðbeining í sameiginlegri baráttu gegn heimsvaldastefnu og drottnunarstefnu.

Fundurinn styrkti góð sambönd EIK(m-l) og AKP(m-l)".

# Gegn skoðanakúgun

Einingasamtök kommúnista (marx-lenínistar) mótmæla harðlega þeirri ákvörðun útvarpsráðs að takmarka verulega þann tíma, sem flokkar og samtök, sem ekki bjóða fram í öllum kjördæmum, fá til umráða í sjónvarpi og útvarpi til að kynna stefnu sína og taka þátt í umræðuþáttum. Ákvörðun þessi leiðir til þess, að kjósendur geta í mjög litlum mæli kynnt sér stefnu Fylkingarinnar, "Kommúnistaflokks Íslands", Stjórnmálaflokksins og framboð óháðra á Suðurlandi, Reykjanesi og Vestfjörðum. Ákvörðun þessi sýnir einnig, að útvarpsráð styður heilshugar þá stefnu þingræðisflokkanna að hindra aðra flokka/samtök í að kynna mál sín og fólk þannig í að taka afstöðu. Einingasamtök kommúnista (marx-lenínistar) vilja því einnig hvetja einstaklinga og samtök til að berjast gegn þessari ákvörðun útvarpsráðs.

Reykjavík 5. júni 1978
Framkvæmdarnefnd miðstjórnar
EIK(m-l)

# MIKILVÆG LEIÐRÉTTING

Hafa EIK(m-l) ákveðið framboð í næstu kosningum (1982) ? - sumir hafa spurt þessarar spurningar eftir lestur VBL. Menn vísa þá í yfirskrift á þriðju síðu VBL nr. 9 : "Eflum baráttuna - næst bjóðum við fram" og niðurlag á viðtali við Ara T. Guðmundsson formann miðstjórnar EIK(m-l) þar sem hann segir að við næstu kosningar verði séð til þess að til verði valkostur.

EIK(m-l) hafa að sjálfsögðu ekkert ákveðið um framboð eftir 4 ár. Yfirskriftin er röng og felur í sér mistök, sem ritnefnd VBL ber ábyrgð á - en í greininni er ekkert sem gefur tilefni til umræddrar yfirskriftar.

Í ummælum formanns miðstjórnar er ekki vísað til framboðslista, heldur nýs kommúnistaflokks sem stofnaður verður fyrir árslok 1979. Valkostur er hann annað hvort sem aðstandandi framboðslista eða sem hvetjandi þess að skila auðu eins og EIK(m-l) gera nú.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l).

Ritnefnd harmar þessi mistök í fyrirsögn, sem að ofan greinir og tekur undir orð Framkvæmdanefndar hér að ofan. Þau orsakast af kæruleysi gagnvart svo mikilvægum atriðum sem fyrirsögnum og hafa áður verið gerð. Við lofum að reyna að tukta sjálf okkur til í þessu efni.

Ritnefnd Vbl.

# Geir kallar stríðsundirbúninginn „tortryggni"



"Tortryggnin er aðalundirrót vígbúnaðarkapphlaupsins" - sagði Geir Hallgrímsson í sjónvarpsviðtali þar sem kynnti "aðstoð" Bandaríkjastjórnar við byggingu flugstöðvar á Keflavíkurflugvelli.

Geir kallar samkeppni auðvaldslandanna, og þá sérstaklega risaveldanna, tortryggni.

Ásælni þeirra í markaði, hráefni, vinnuafl o.fl. er skortur á gagnkvæmu trausti kúgunarafla á borð við auðhringa Bandaríkjanna og ríkisauðvald Sovétkeisaranna.

Stríðsundirbúninginn væri þá unnt að laga með "auknum skilningi" og "gagnkvæmu trausti". Með þessum fáránlegu útskýringum á hættulegu kapphlaupi heimsveldanna hjálpa Geir og forysta Sjálfstæðisflokksins risaveldunum tveimur til þess að blekkja alþýðu landsins - og er það reyndar sammerkt öllum stjórnmálaflokkunum fimm.

Þátttaka Bandaríkjanna í mannvirkjagerð á Keflavíkurflugvelli er liður í aðgerðum ísl. auðstéttar og þeirrar bandarísku við að styrkja tengslin sín á milli.

EIK(m-l) berjast gegn allri erlendri ásælni og falskri "hjálp" erlendis frá. Risaveldin eru hættulegustu andstæðingar alþýðu heimsins. EIK(m-l) taka afstöðu gegn þátttöku Bandaríkjastjórnar í flugstöðvabyggingunni og hvetja alla and-heimsvaldasinna að láta í ljós andstöðu sína og baráttuafstöðu sína gegn risaveldunum.

# Október

Fyrst mikilvæg tilkynning frá Október-forlaginu á Akureyri: verslun forlagsins í Hafnarstræti hefur verið lokað, þar sem ekki reyndist unnt að halda húsnæðinu lengur á leigu. Fyrst um sinn geta viðskiptamenn Október haft samband við Þórarinn Hjartarson, Spítalavegi 17.

Í Október-búðinni á Óðinsgötu fæst margvíslegt lesefni á íslensku og erlendum tungumálum um baráttu marx-lenínista og verkalýðs víðs vegar um heiminn. Þar má einnig fá verk frumkvöðlanna, Marx, Engels,Leníns, Stalíns og Maós Tsetungs á íslensku og erlendum tungumálum. Þá fást hljómplötur með framsækinni tónlist frá Norðurlöndum.

Af nýlegu íslensku efni má nefna: 3. hefti af "Baráttu gegn endurskoðunarstefnu", uppgjör fyrrverandi félaga "KFÍ/ML" við fortíð sína, nýtt tölublað af "Til baráttu", námsmannablaði EIK(m-l). Þá er væntanlegur nýr "Rauðliði", fræðilegt og menningarlegt tímarit EIK(m-l).

Lítið inn! Opið alla virka daga kl. 17-19 og á laugardögum 13-15.

# SÍNE notað í atkvæðasmölun Alþýðubandalagsins

Samband íslenskra námsmanna erlendis SÍNE eru hagsmunasamtök, sem starfa eiga þvert á flokkapólitík. Auðvitað takast pólitískar stefnur á innan SÍNE eins og annars staðar og þar ræður meirihlutavald virkra félaga.

Nú er stjórn SÍNE að meirihluta í höndum afturhaldsmanna úr Fylkingunni - svonefndra trotskíista. Þessir menn eru dyggir skósveinar Alþýðubandalagsins. Þeir ganga svo langt að láta AB nota SÍNE sem lið í atkvæðasmölun sinni í yfirstandandi kosningum.

Annars vegar notar AB spjaldskrá SÍNE til þess að senda mögulegum stuðningsmönnum erlendis bréf með beiðni um atkvæði o.fl.

Hins vegar hefur skrifstofumaður SÍNE verið látinn hringja í námsmenn, nýkomna heim, til að tryggja að þeir færi sig inn á kjörskrá - á skrifstofum AB í Reykjavík og Kópavogi.

Þessi grófa misnotkun á skjölum SÍNE og spjaldskrá er fordæmd og SÍNE-félagar hvattir til þess að mótmæla og hreinsa sem fyrst Fylkingarafturhaldið úr stjórn SÍNE.

SÍNE-fréttaritari.

# Námsmenn sviptir atkvæðisrétti

Með dómi í undirrétti og staðfestingu Hæstaréttar hafa námsmenn á Norðurlöndum sem undirritað hafa lögboðið samnorrænt flutningsvottorð verið sviptir kosningarétti á Íslandi. Dómur þessi er nýfallinn, svo að líklegast er að hann komi ekki til framkvæmda fyrir þær kosningar sem í hönd fara, nema einhver gerist svo framtakssamur að kæra þá út af kjörskrá. Þar eru þeir nú. Fari svo, verða námsmenn að grípa til harðra aðgerða. Svipting grundvallarréttinda eins og kosningaréttar í lýðræðislegu samfélagi er hlutur sem ekki má þola. Fyrir næstu kosningar verður að sjá svo um að námsmenn erlendis missi engin þau réttindi sem þeir hafa á Íslandi. Þetta mál er dæmigert fyrir svonefnt "norrænt samstarf" - það sýnir svo ekki verður um villst, fyrir hverja norrænt samstarf er ekki. Það er ekki fyrir námsmenn, það er ekki fyrir vinnandi alþýðu, það er ekki fyrir verkalýð. Það er fyrir auðstéttir Norðurlandanna.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Hvers vegna ASÍ-foringjarnir hafast ekkert að:

## Reynt að virkja óánægju verkafólks í þingkosningunum

Kjararánslögin fyrri hafa nú verið í gildi í rétta 4 mánuði og fært atvinnurekendum hundruð milljóna í gróða - án þess að verkalýðsforystan hafi beitt sér fyrir meiru en sýndaraðgerðum og bitlausum upphlaupum til að "mótmæla ólögunum harðlega". Greinilegt er að það er ætlun forystunnar að endurheimta ekki ránsfeng atvinnurekenda vegna kauptánslaganna í febrúar. Heldur er verkalýðsforystan nú á kafi í því að virkja óánægju verkalýðsins til atkvæðaveiða fyrir borgaralegu verkalýðsflokkana, Alþýðubandalag og Alþýðuflokk. Sýndartilburðirnir "útflutningsbann" og "innflutningsbann á olíu" voru notaðir til að villa fólki sýn og telja því trú um að alltaf væri verið að "berjast fyrir það". Engar kjarabætur hafa þessar makalausu aðgerðir gefið verkafólki, en atvinnurekendur una glaðir við svo meinlausa "kjarabaráttu"!

Fulltrúar krataflokkanna tveggja í verkalýðsforystunni staglast á því að "næsti samningafundur verði háður í kjörklefanum" 25. júní. Þá verði "kosið gegn kaupráni", helst með því að koma Alþýðubandalaginu og Alþýðuflokknum alla leið í ráðherrastóla. Þannig hefur óánægja og reiði verkalýðsins verið nýtt á skipulagðan hátt í kosningunum til sveitastjórna og þannig verður reynt að virkja hana í þingkosningunum. En kýs verkafólk gegn kjaraskerðingum og kaupráni með því að henda atkvæði í krataflokkana? Nei og aftur nei! Minna má t.d. á þátt Alþýðubandalagsins í þeim aðgerðum "vinstri" stjórnarinnar sálugu að afnema vísitölubætur á kaup 1974. Þá þarf ekki annað en að horfa á og fylgjast með þessum "verkalýðsflokkum" stýra Reykjavík þessa dagana, til að sannfærast um fánýti þeirra og svik við verkalýðinn. Þar þykjast blessaðir alþýðusinnarnir hafa leitað í dyrum og dyngjum og hvergi fundið aura til að borga starfsmönnum borgarinnar það sem þeir eiga inni. Já, fljótt gleymast fögru kosningarullurnar!

STAÐAN Í DAG

Í dag beinist allt starf ASÍ-forystunnar að því að fjölga atkvæðum og biltingum krataflokkanna tveggja. Hún hefur haft á orði að skipuleggja yfirvinnubann, en hætti síðan við það af því að kosningarnar voru á næsta leyti. Yfirvinnubann skipulagt af ASÍ-forystunni hefði engu breytt til eða frá. Það hefði bara verið enn ein sýndaraðgerðin, ákveðin á toppplaninu og sett yfir allar starfsgreinar og alla vinnustaði án nokkurs tillits til aðstæðna á hverjum stað.

EIK(m-l) leggja áherslu á að aðstæður til baráttu verði að meta eftir aðstæðum á hverjum stað og benda á að um þessar mundir er yfirvinnubann á mörgum vinnustöðum sérlega heppileg aðgerð - svo framarlega sem aðgerðir eru skipulagðar af verkafólkinu sjálfu og þeim stjórnað af því án afskipta ASÍ-forystunnar. Þetta á einkum vel við vinnustaði í járniðnaði, flutningum og verslun, og Verkalýðsblaðið hefur heyrt á nokkrum vinnustöðum í Rvík. og út um land umræður um slíkt yfirvinnubann. Blaðið hvetur eindregið til þess að verkafólk grípi til yfirvinnubanns, en á þeim stöðum sem það er metið ónothæft kemur til greina að fara í skyndiverkfall, vinna í hægagangi, o.fl. Aðstæðurnar ráða aðferðum, en aðalatriðið er að reyna að gera eitthvað til að verjast kjaraárásunum og blása til nýrrar sóknar. Mikilvægt er til dæmis að setja fram og berjast fyrir kröfunni um 150-160 þús. kr. lágmarkskaupi á mánuði fyrir dagvinnu. Sú upphæð gefur svipaðan kaupmátt og kjarasamningarnir 1974. ASÍ-forystan er andvíg þessari kröfu, telur hana ekki raunhæfa (þ.e. of háa!). Þar er að finna enn eina sönnun þess að enginn færir alþýðunni kjarabætur og réttindi nema sameinuð barátta hennar sjálfrar. Á meðan að ekki er til staðar styrk baráttustefna í verkalýðshreyfingunni og á meðan stéttasamvinnustefnan hefur tögl og hagldir í verkalýðsforystunni, þá er ekki að vænta stórra sigra. Þetta er köld staðreynd.

# Trúnaðarmanni sagt upp fyrirvaralaust

Eins og lesendum Vbl. er kunnugt, var trúnaðarmanni Dagsbrúnar á Kirkjusandi, Bjarna Jónssyni, hótað uppsögn ekki alls fyrir löngu. Hafði hann þá haldið því fram að flutningur á kjöti úr frystigeymslum frystihússins samrædist ekki ákvæðum samninga, en þeir kveða á um að unnin skuli öll almenn störf í frystihúsi. Bjarni hafði áður staðið upp í hári yfirmanna Kirkjusands þegar þurfti að sækja rétt verkafólks, og vegna þess gáfu yfirmenn stundum í skyn að hann "mætti passa sig". Fyrrnefnd uppsögn var látin niður falla er Dagsbrúnarforystan ákvað að "hefð" væri komin á það að starfsmenn á Kirkjusandi flyttu kjöt á bíla til flutnings. Síðan var Bjarna gefið tækifæri til að "bæta sig", án þess að hann hafi verið látinn vita um það sérstaklega, hvað þá að honum hafi verið bent á hvað yfirmenn teldu helst að honum.

Svo gerðist það síðar, að Bjarni lenti í miklu rifrildi við yfirverkstjóra og missti stjórn á skapi sínu. Hafði hann óviðurkvæmileg orð um verkstjórann og fékk sparkið á stundinni. Dagsbrúnarforystan neitaði að gefa sér tíma til að ræða málið að gagni við Bjarna, en mun þó hafa séð af nokkrum mínútum til að segja yfirverkstjóranum að ummæli Bjarna gæti enginn lögfræðingur varið. Það væri m.ö.o. ekkert sem komið gæti í veg fyrir uppsögn hans.

Verkafólk á Kirkjusandi hélt fund um málið, þar sem skýrt var frá uppsögninni og skýringum verkstjórans. Taldi hann Bjarna hafa svikist oft um í vinnunni og hafi síðasttalda atvikið aðeins orðið til að fylla mælinn. Almennt þótti starfsfólkinu sem þessi framburður væri fyrirsláttur einn, til þess gerð að reyna að verja brottreksturinn. Jafnframt var fólk sammála um að Bjarni hefði hlaupið á sig er hann reifst við verkstjórann. Verkafólkið krafðist þess að honum yrðu greidd full laun út uppsagnartímann, og að hann fengi skriflegt uppsagnarbréf eins og hann átti rétt á. Þegar þetta er skrifað, hefur ekkert uppsagnarbréf borist og Gísli Hermannsson, framkvæmdastjóri, lýsti því yfir að brotið væri svo alvarlegt að Bjarni ætti engan rétt á uppsagnarbréfi og uppsagnarfresti. Dagsbrúnarforystan hreyfir hvorki legg né lið til aðstoðar Bjarna.

Verkalýðsblaðið hefur skrifað talsvert um málefni verkafólks á Kirkjusandi, ekki vegna þess að Kirkjusandur sé í sjálfu sér frábrugðinn flestum öðrum vinnustöðum á landinu. Heldur vegna þess að þar hafa gerst margir atburðir sem ber að segja frá og læra af. Stéttasamvinnustefna ASÍ-forystunnar og forystuliðs Dagsbrúnar og Framsóknar kemur skýrt fram í baráttunni á Kirkjusandi. Dæmin sanna, að sá aðili sem hvað mest reynir að afvegaleiða og grafa undan baráttu fólksins sjálfs úti á vinnustöðunum sjálfum er þessi stéttasamvinnustefna verkalýðsforystunnar: eilíft makk við atvinnurekendur og ríkisvaldið.

Fréttaritari.

<u>Athugasemd frá faglegum ritstjóra ritstjórnar:</u>

Skrifin í blaðinu um Kirkjusand hafa í höfuðatriðum verið góð, m.a. hefur náðst að draga vel fram andstæðurnar á milli verkalýðsforystunnar og verkafólksins. Hins vegar eru veikar hliðar skrifanna helstar þær, að 1) ekki var sinnt nægilega um að fá gagnrýni fólksins sjálfs á skrifin áður og eftir að þau voru birt í blaðinu, til að fólkið sjálft gæti haft áhrif á skrifin og þau hafi verið sameign mun fleira fólks. 2) Ekki var lögð nógu rík áhersla á að sigrarnir sem unnist hafa á Kirkjusandi voru verk <u>alls</u> verkafólksins og samstöðu þess, en ekki fyrst og fremst verk örfárra manna, eins og stundum var hægt að skilja í blaðinu. Ritstjórn gerir sjálfsgagnrýni á þessi atriði, en hvetur allt verkafólk til að senda blaðinu skilaboð og fréttir um það sem gerist á vinnustöðum.

## SMÁ...

Geir Hallgrímsson, kaupránsforingi ríkisstjórnarinnar, skrifar grein um kjaramálin í Moggann 11. febrúar. Þar reynir hann að verja á allan hátt kauptánslagasetningar stjórnarinnar og segir m.a. að rétt sé sem bent hafi verið á, að síðari lagasetningin skerði yfirvinnutekjur. Í greininni er að finna eftirfarandi tilvitnun, sem er í meira lagi ósvífin:

"Þegar gagnrýnendur segja, að minni hvati sé fyrir fólk að vinna eftirvinnu eftir að dregið hefur saman með dagvinnu- og eftirvinnukaupi, og leggja þannig meira á sig, þá hefur sú gagnrýni við rök að styðjast. <u>En eru þessi gagnrýnendur ekki sömu mennirnir og mest hafa talað um óhóflega eftirvinnu og nauðsyn þess að menn gætu lifað af dagvinnunni?</u>" (Undirstr. Vbl.).

Þessi orð þarfnast tæplega skýringa. En meðal annarra orða: Hefur verkafólkið beðið um yfirvinnuþrælkun? Hefur það beðið um kjaraskerðinguna? Nei!

# Krafist aðalfundar í Dagsbrún

Í lögum Verkamannafélagsins Dagsbrúnar er kveðið svo á, að aðalfundur skuli haldinn fyrir 15. febrúar ár hvert. Þrátt fyrir það bólar enn ekkert á aðalfundi í Dagsbrún og nú skýrir Stéttabaráttan, málgagn "KFÍ/ML" frá því að nokkrir félagar í Dagsbrún hafi sent inn kæru vegna málsins og bent á lögbrot Dagsbrúnarforystunnar. Kæran var send til ASÍ, sem sendi hana til Verkamannasambandsins. Verkalýðsblaðið styður eindregið allar kröfur um að aðalfundur verði haldinn hið snarasta og raunar að þrýst verði á um að haldnir verði félagsfundir mun oftar. Blaðið bendir jafnframt á að aðeins samtakamáttur verkamannanna sjálfra mun knésetja Dagsbrúnarforystuna. Ólíklegt er að ASÍ-forystan eða forysta Verkamannasambandsins muni gera eitt eða neitt í málinu. Þar sitja jú m.a. helstu forystumenn Dagsbrúnar ásamt mörgum fleiri verkalýðsforingjum sem starfa eins og Gvendur og Eðvarð í sínum félögum.

## ●●● Samtíningur

TRÚLOFUN

Lesendur Samtínings hafa eflaust rekið augun í það að all mikið er fjallað um svokallaðan vinstri kant stjórnmálanna á því þrönga plássi sem okkur er úthlutað hér í blaðinu. Áhugi okkar fer síst dvínandi - enda alltaf eitthvað um að vera sem viðheldur honum.

Það nýjasta sem augun beinast að er auðvitað hið ópinbera trúlofunarástand sem nú ríkir á milli Fylkingarinnar og hópsins sem kallar sig Kommúnistaflokk Íslands m-l. Hefur málið nú náð svo langt að "flokkurinn" gekk undir fána 4. Alþjóðasambandsins á 1.maí. En þótt vel virðist ganga í augnablikinu þá hefur málið sínar dökku hliðar - og eru "hjónaleysin" óspör á að tína gallana hvort hjá öðru.

Neisti, málgagn Fylkingarinnar, segir um "flokkinn" :

"Þessi samtök eiga í vök að verjast á vinstri kantinum og eru á niðurleið. Í harðri samkeppni við EIK(m-l) reyna þau nú að krafsa í bakkann og samfylkja með Fylkingunni ... 1.maí. (4.tbl. Neista 1978)

Og Stéttabaráttan, málgagn "flokksins" segir um Fylkinguna:

"Fylkingin er gjörsamlega föst í stéttasamvinnustefnunni... og greinilegt er að Fylkingin ætlar ekki að losa sig úr viðjum stéttasamvinnustefnunnar" (8.tbl. Stb.1978).

Við getum ekki annað en samsinnt þessum tveimur lýsingum sem eru hárréttar. En við tökum enga ábyrgð á heimilislífi þessara tveggja aðila eftir að þau hafa náð saman í eina sæng - því tæplega getur samband svona gallagripa blessast.

"STUNDUM FRAMSÆKIN"

Það er skammt stórra högga á milli í Stéttabaráttunni. Þetta blað, sem gerir tilkall til þess að teljast marx-lenínískt málgagn, reynir nú að fegra trotskisman í augum lesenda sinna. Tilgangurinn er auðvitað sá að gera samstarf "flokksins" við Fylkinguna sakleysislegra. Í 2o. tbl. Stb. segir að Fylkingin "taki stundum framsækna afstöðu" en sveiflist á milli byltingarrómantíkur og umbótastefnu eins og vindmylla. Fyrir kommúnísku hreyfinguna eru það nýjar fréttir að trotskísk samtök taki "stundum framsækna afstöðu". Fram til þessa hefur allt starf trotskista hvarvetna þar sem þeir hafa látið til sín taka, verið erki afturhaldssamt - hægri stefna falin í vinstri frösum ! Öll saga kommúnísku heimshreyfingarinnar sýnir þetta. Rugl Stéttabaráttunnar um framsækni trotskista sýnir bara eitt: blaðið er svo djúpt sokkið í hentistefnu að það er ekki fært um að greina eina tegund falssósíalisma frá annarri. Í stað þess að fylgja orðum Hó Chí Míns:

"Trotskistar eru eitur í beinum hverrar byltingarhreyfingar". Í stað þess reynir "flokkurinn" að ljúga framsækni uppá fylgjendur Trotskis.

NEISTAHÁTÍÐ...

...var haldin fyrir skömmu. Stóð hún frá klukkan 1 e.h. og fram á nótt. Fyrir suma stóð hún þó skemur. Þegar tíðindamaður Vbl. leit þar inn um miðjan dag til að bjóða Vbl. til kaups, voru drykkjulæti í algleymingi og fjöldi fólks "sofnaður" fram á borð sín. Við viljum hvetja hin nýju og virku Samtök Áhugamanna um Áfengismál að snúa sér að Fylkingunni.

VEISTU....

hvaða munur er á Ísjaka og Gvendi Jaka? -Nei. Gvendur Jaki er <u>allur</u> á yfirborðinu! (Ha ha ha ha...)

GUÐRÚN HELGADÓTTIR....

aðalleikari Alþýðubandalagsins í borgarstjórnarkosningunum er einnig notuð sem atkvæðabeita í þingkosningabaráttunni. Hún sagði í sjónvarpinu á dögunum að eftir sigur Allaballa 28. maí væri bara eftir að sigra afturhaldið í þingkosningunum og "þá er hægt að hefja uppbygginu þess þjóðfélags sem við viljum búa í - þjóðfélags jafnréttis". Blessaður borgarfulltrúinn var svo sannfærandi á svipinn, meðan hún hafði rulluna yfir, að engu var líkar en hún trydi þessu sjálf!

# „Vinstri" stjórnin 1971-74: Stjórn auðvaldsins

Alþýðubandalagið stærir sig af "vinstri"stjórninni árin 1971-1974, en þegir þunnu hljóði um afrek sín þar, í þessari svonefndu "ríkisstjórn vinnandi stétta". Þessi grein rekur ekki alla hrakfalla- og svikasögu þessarar stjórnar, en minnir aðeins á helstu atriði. Það er gott að hafa í huga, þegar gengið er að kjörborðinu. Þau sýna að Alþýðubandalagið er ekki valkostur verkalýðssinna, baráttufólks úr verkalýðsstétt eða sósíalista.

VERKALÝÐSMÁL

"Vinstri" stjórnin rauf samband verðlags og launa með lögum sínum um frystingu vísitölunnar í maí 1974, og eyddi þar með því sem verkalýður hafði nýlega áunnið sér með harðri baráttu.

Launakjör á "vinstri"-stjórnartímanum voru í heild lægri en þau höfðu verið rétt áður en stjórnin tók við.

VERÐLAGSMÁL

"Vinstri"stjórnin framkvæmdi tvær gengisfellingar ( og eina minni háttar gengishækkun ) og jók þar með verðbólguna og gróða auðvaldsins. Í lok "vinstri" stjórnaráranna var verðbólgan komin á svipað stig og hún er nú.

Einu aðgerðir "vinstri" stjórnar gegn verðbólgu voru sýndarverðstöðvanir, sem aðeins voru tímabundnar frestanir á holskeflunum. "Vinstri" stjórnin var jafn ráðalaus í verðbólgumálum og stjórn Geirs og Ólafs Jóh.

ATVINNUMÁL

"Vinstri" stjórnin hafði forgöngu um kaup nýrra togara, og veitti íslensku útgerðarauðvaldi hagstæðari lán en áður höfðu þekkst til þessara kaupa. Togararnir settu landið í miklar skuldir. Allir sjóðir voru tæmdir, svo að ekkert var eftir til að mæta áföllum aflaleysis. Togararnir juku atvinnu á ýmsum stöðum, en þess var ekki gætt að dreifa þeim nægilega. Þeir voru of margir, þar sem fiskivernd leyfði ekki svo mikla aukningu sóknar.

STÓRIÐJA

"Vinstri" stjórnin fylgdi stefnu fráfarandi hægristjórnar um aukningu erlendrar stóriðju á Íslandi, en setti þau formsatriði sem skilyrði - svona rétt til að sýnast - að íslenskir aðilar - ríki eða annað auðvald- ættu meira en helming í þessum fyrirtækjum.

ORKUMÁL

"Vinstri" stjórnin gerði engar breytingar á orkugjöf Íslands til erlendrar stóriðju og bandaríska hersins. Hún átti einnig fullan þátt í undirbúningi og flaustri í kringum Kröfluvitleysuna, og stakk góðum dúsum upp í gæðinga sína þar, sbr. Ragnar Arnalds.

LANDHELGISMÁL

"Vinstri" stjórnin færði út landhelgina í 50 mílur,en hugarfarið á bak við útfærsluna (sem í sjálfu sér var mjög rétt og tímabært skref) var ekki að gagnast íslenskri alþýðu, heldur að þóknast íslensku útgerðarauðvaldi. Þetta kom fram m.a. í svikasamningunum við Breta og Þjóðverja, og í skipakaupum og stóraukinni sókn Íslendinga á fiskimiðin, þrátt fyrir aðvaranir fiskifræðinga.

HERMÁL

"Vinstri" stjórnin lofaði að hefja brottflutning bandaríska hersins " í áföngum ", en stóð ekki við það. Fremur má segja að herinnn hafi þá þegar verið farinn að styrkja stöðú sína með því að leggja nýjar flugbrautir o.fl. Með loforðum sínum og fagurgala lamaði "vinstri" stjórnin alla fjöldabaráttu gegn hernum og átti Alþýðubandalagið þar stærstan hlut að máli.

NATÓMÁL

"Vinstri" stjórnin hafði ekki uppi neina tilburði í þá átt að segja landið úr NATÓ, stuðla að niðurlagningu hernaðarbandalaga eða friðlýsa N-Atlantshaf fyrir vígvélum.

UTANRÍKISMÁL

"Vinstri" stjórnin studdi ekki þjóðfrelsishreyfingar í heiminum, svo sem í Víetnam, Kambódíu, Palestínu o.fl., nema með hálfvelgjuyfirlýsingum um "samúð" og "skilning" endrum og eins. Hún mótmælti ekki hernaðaryfirgangi Sovétmanna á N-Atlantshafi og þagði þunnu hljóði um brot sovéskra fasista á mannréttindum í heimalandi sínu. Hún vakti ekki athygli á stríðsundirbúningi risaveldanna. Hún gerði óhagstæða verslunarsamninga við Sovétríkin, og gerði Ísland þar með skuldugra Sovétmönnum, - og um leið háðari.

JAFNRÉTTISMÁL

"Vinstri" stjórnin gerði engar raunhæfar aðgerðir til að sporna gegn atvinnulegu og efnahagslegu misrétti kynja. Hún gerði heldur ekki sjálfsákvörðunarrétt kvenna um fóstureyðingar að veruleika.

FÉLAGSMÁL

"Vinstri" stjórnin gekk ekki fram fyrir skjöldu í dagvistarmálum. Hún stuðlaði ekki heldur að bærilegra ástandi í húsnæðismálum. Hún varði á engan hátt rétt leigjenda gegn leigusölum. "Vinstri" stjórninni til hróss má segja að hún jók örorkubætur og ellilífeyri talsvert frá því sem áður var, þótt nokkuð gengi á þá hækkun á kjörtímabilinu, og var þó enginn of sæll af því að lifa af þessum krónum.

MENNTAMÁL

"Vinstri" stjórnin bætti ekki kjör námsfólks, heldur stöðvaði áætlun fyrrv. menntamálaráðherra (Gylfa Þ. ! ) um stighækkun námslána upp í að þau nægðu til framfærslu. (Þessi áætlun fékkst eftir langa og harða baráttu námsmanna). "Vinstri" stjórnin beitti sér fyrir lögum um skerðingu á rétti námsfólks og hert endurgreiðslukjör námslána. Það frumvarp sofnaði þó í nefnd.

NIÐURSTÖÐUR

Það er nokkuð sama hvar borið er niður. "Vinstri" stjórnin var ekki stjórn vinnandi fólks, heldur ríkisstjórn þóknanleg auðvaldinu í hæsta máta. Auðvitað má færa rök að því að hún hafi verið tortryggnari gagnvart erlendu auðvaldi en hægri stjórnirnar á undan og á eftir. Einnig má færa að því rök að kjör hinna allra verst settu - öryrkja og ellilífeyrisþega - hafi batnað á "vinstri"stjórnarárunum. En að fullyrða að meiri umhyggja fyrir íslensku auðvaldi en erlendu og að færa öryrkjum skárri kjör - að fullyrða að þessi atriði geri "vinstri" stjórnina að stjórn alþýðúfólks - er ekkert annað en argasta rangfærsla. Þeim lygaáróðri hafnar þú, lesandi góður , um leið og þú hafnar lygum allra borgaralegra flokka sem bjóða fram, með því að

SKILA AUÐU Í ALÞINGISKOSNINGUNUM !

# Borgarstjórnarkosningarnar: Skipt um íhald

Úrslit borgarstjórnarkosninganna í Reykjavík 28.maí sl. hafa vakið mikið umtal. Kosningasigur sósíaldemókratísku flokkanna Alþýðubandalags og Alþýðuflokks var mjög mikill, og að sumu leyti óvæntur. Þó ekki svo mjög ef grannt er skoðað.

Jákvæðar hliðar.

Gleðilegt er, að borgarstjórnaríhaldið, ein magnaðasta forréttindaklíka innan pólitísks arms íslenskrar borgarastéttar, skyldi missa meirihluta sinn. Því fagna allir verkalýðssinnar. Annað ánægjuefni er fylgistap Framsóknarflokksins, flokks einokunarfyrirtækisins SÍS.

Ástæðum þessa afhroðs stjórnarflokkanna í Reykjavík og reyndar um allt land má vafalaust skipta í tvennt.

Annars vegar eru hinar skefjalausu árásir ríkisstjórnarinnar á samninga og kjör vinnandi fólks að undanförnu. Alþýðufólk sem áður studdi þessa flokka sá enga ástæðu til að halda áfram þeim stuðningi.

Hins vegar hefur orðið talsverð breyting á umræðum og skoðanamyndun fólks að undanförnu. Baráttustefna hefur náð nokkrum rótum meðal verkafólks, a.m.k. í einstökum málum. Baráttusinnaður og kommúnískur áróður hefur náð lengra nú en áður. Pólitísk meðvitund hefur því aukist. Alþýðan greinir betur en áður óvin sinn, auðvaldið, og sér það í líki Sjálfstæðisíhalds og Framsóknarafturhalds. Opnari umræður í sumum hinna borgaralegu blaða hafa einnig haft sitt að segja varðandi það að opna augu fólks fyrir ýmsu miður fallegu í fari þessara flokka.

Jákvæðu hliðarnar við úrslit þessara kosninga eru því tvennar:

1. Afhroð hinna hreinu auðvaldsflokka.
2. Aukin meðvitund almennings.

NEIKVÆÐAR HLIÐAR

Ósigur hreinna auðvaldsflokka snérist í þessum kosningum upp í sigur borgaralegu verkalýðsflokkanna tveggja, Alþýðuflokks og Alþýðubandalags, sem að vísu eru engu minni auðvaldsflokkar en hinir tveir. En þeir hafa þrennt til að bera sem færir þeim óánægjufylgið frá hinum. Í fyrsta lagi hafa þeir ekki átt þátt í borgarstjórnarmeirihlutanum, og eiga því enn alveg eftir að sýna vanmátt sinn. Í öðru lagi dylja þeir borgaralega stefnu sína róttækrri skikkju. Í þriðja lagi bauð enginn listi raunverulegra baráttusinna fram í þessum kosningum.

Það var því eðlilegt að fólk skyldi fremur veita þeim atkvæði sitt en að skila auðu eða sitja heima. Að vísu var allstór hópur manna sem skilaði auðu, eyðilagði seðil sinn eða sat heima. Þessi hópur er vafalaust mislitur. Sumir gerðu það af því að þeim var ljóst að enginn þessara flokka er neinn valkostur fyrir verkalýðssinna og baráttusinna. Þrátt fyrir margendurtekin og áratuga svik Alþýðuflokks (sbr. Viðreisnarstjórnina) og Alþýðubandalagsins (sbr. "vinstri stjórnirnar"), eru þeir enn neyðarhöfn margra ærlegra verkalýðs- og baráttusinna, sem telja atkvæði sínu kastað á glæ ef þeir kjósa ekki einhvern þeirra sem bjóða fram. Þótt nokkur vakning hafi orðið meðal vinnandi alþýðu um kjör sín og stéttarlega stöðu hefur sú vakning í mörgum tilvikum ekki enn náð lengra en að þessum tveim úlfum í sauðagærum. Vei þessum úlfum, þegar alþýðan lærir enn meira um stöðu sína og kjör og um eðli þessara sviksamlegu flokka !



"Vinstri" stjórnin í Reykjavík: strax eftir kosningarnar talaði Þjóðviljinn um að "menn mættu ekki búast við of miklu"!

Neikvæðustu atriði kosningaúrslitanna í Reykjavík eru því fyrst og fremst þau að fylgið skyldi safnast að stéttasamvinnumönnunum og endurskoðunarsinnum, hrikalegustu svikurum sögunnar við vinnandi fólk.

HVAÐ ER FRAMUNDAN ?

EIK(m-l) tóku hverfandi þátt í þessum kosningum. Enginn baráttusinnaður listi var í kjöri. Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn munu nú taka forystu í borgarstjórn, vafalaust með brambolti og stóryrðum. Þeir múnu vekja með fólki miklar vonir um bættan hag og betri borg. En eftir er að sjá efndirnar. Því miður getur reykvísk alþýða ekki vænt stórra bóta á högum sínum (einhverjar umbætur verða þó gerðar í áróðursskyni), þrátt fyrir "sósíalisma" þessara flokka. Barátta þeirra fer ekki fram meðal fólksins, heldur meðal dauðra stóla borgarstjórnarfulltrúa. Slík barátta hefur aldrei borið teljandi árangur. Skýrasta dæmið um sveitarfélag á Íslandi þar sem "sósíalistar" hafa náð miklum "árangri" er Neskaupsstaður, bær opinberrar spillingar og arðráns á verkafólki. Hvað gerist undir stjórn sósíaldemókrata? Dæmi um það má sjá einna skýrast í Svíþjóð og Noregi, þar sem einokunin hefur komist á hærra stig en víðast annars staðar, ef undan eru skilin Bandríkin. Það sem gerist ef endurskoðunarsinnar á borð við Alþýðubandalagið komast til valda í heilu ríki sjáum við í Sovétríkjunum, þar sem ríkir sósíalfasismi - sósíalismi í orði, fasismi í verki.

Félagar - baráttusinnar. Við skulum því minnast þess, að það er engu minni þörf fyrir fjöldabaráttu og baráttustefnu í höfuðborginni, þótt sósíaldemókratar hafi þar nú tögl og haldir um sinn. Ef til vill er þörfin nú meiri en nokkru sinni fyrr.

# FÖLSUN Á AFSTÖÐU KOMMÚNISTA

Afstaða kommúnista til þingstarfa getur aðeins verið ein: Að nota þingsætin til þess að afhjúpa eðli þingræðis auðstéttarinnar, stéttasamvinnu núverandi stjórnmálaflokka og reka áróður fyrir sósíalisma og allri fjöldabaráttu.

Þessi afstaða byggir á því að verkalýðsstéttin og bandamenn hennar geti ekki beitt ríkisvaldi og stofnunum auðstéttarinnar fyrir sér í þjóðfélagsbaráttunni. Það sýnir reynslan hér heima og heiman, ásamt sjálfum fræðum marxismans og lenínismans.

Ekki gátu "sósíalistarnir" á Alþingi breytt neinu um inngöngu Íslands í NATO 1949. En það sem verra var, þeir héldu aftur af fjöldabaráttu með tálsýnum um að málin yrðu ráðin á þingfundum og hvatningu um "þögul mótmæli".

Hin grófu kaupránslög á kreppuárunum mættu skipulagðri fjöldabaráttu verkafólks undir forystu Kommúnistaflokks Íslands. Þá var ekki tekið mið af hagsmunum einhvers þingflokks og beitt handafli þegar með þurfti. Enda fór svo að auðstéttin neyddist til þess að tryggja atvinnu um stund og bæta kjör alþýðu.

Þessi tvö dæmi sýna mikilvægi þess að trúa ekki falsáróðri Alþýðubandalagsins um að "verkalýður nái völdum" með nýrri "vinstri" stjórn, eða að breytt þjóðmálastefna sé tryggð með úrslitum kosninga.

Með orðum Marx: "Kosningar til þjóðþinga gefa auðvaldinu lýðræðislega ásýnd. En þær eru eingöngu kosningar um það hvaða flokkur skuli stjórna ríkisvaldinu, tæki einokunarauðvaldins til að viðhalda yfirráðum sínum yfir vinnandi fólki" (undirstr. Vbl.).

Nú er því haldið fram, að tilgangur kommúnista með framboði sé sá að "verkalýður eignist málsvara á Alþingi í baráttunni fyrir bættum kjörum og lýðréttindum innan núverandi þjóðskipulags". En barátta fjöldans "ráði um þjóðskipulagið þegar til lengdar láti". Hér er ekki vitnað til Þjóðviljans, heldur leiðara Stéttabaráttunnar, málgagns "Kommúnistaflokks Íslands", nr. 19 1978.

Með því að bera kjarna framansagðs saman við skrif Þjóðviljans, sést að á þeim er ekki eðlismunur, heldur í mesta lagi stigsmunur. "Flokkurinn" aðskilur dægurbaráttu og baráttu fyrir sósíalisma, aðskilur þingræðis- og fjöldabaráttu og fer ranglega með höfuðverkefni kommúnista á Alþingi. Í orðum "KFÍ/ML" gægist falsmarxismi Alþýðubandalagsins fram. Hugmyndafræði "Flokksins" er kennd við "marx-lenínisma", en hún fjarlægist hann ótrúlega hratt að innihaldi og því meir sem "Flokkurinn" reynir að fela skipbrot sitt.

# „KFÍ", FYLKINGIN, ALÞÝÐUBANDALAG: ENGIR VALKOSTIR

## skilum kjörseðlinum auðum

Verðandi - félag róttækra í Háskólanum boðaði til fundar í Félagsstofnun stúdenta 1. júní, þar sem fram áttu að koma efstu menn á framboðslistum "KFÍ/ML", Fylkingarinnar og Alþýðubandalagsins til þingkosninga í Reykjavík. Fyrir Fylkinguna mætti Ragnar Stefánsson, fyrir "KFÍ" Gunnar Andrésson, fyrir Alþýðubandalagið (AB) Þröstur hagfræðingur Ólafsson. (Svavar Gestsson gat víst ekki mætt fyrir hönd AB).

Þröstur hóf mál sitt á því að lýsa hátíðlega yfir því að sósíalistar héldu nú um stjórnvöl Reykjavíkurborgar og í kjölfar sveitastjórnakosninganna færu í hönd tímar "efnahagslegra umbyltinga á Íslandi" - hvorki meira né minna! "Auðvaldið á ekki afturkvæmt í fyrri valdastöður sínar", sagði hagfræðingurinn. Hann sagði að sigur AB táknaði aukna stéttarvitund verkalýðsins og með kjöri AB í sveitastjórnarkosningunum hafi alþýðufólk verið að "afhenda Alþýðubandalaginu fjöregg sitt". Þröstur bíðlaði stíft til "alls róttæks fólks" að koma til starfa í Bandalaginu, en fullvissaði þó fundarmenn um að í flokknum væri ekki alltaf "logn og blíða sumarsól".

Ragnar vildi að verkalýðsforystan héldi til streitu kröfunni um "samningana í gildi" og kvaðst vona að "KFÍ" veitti Fylkingunni lið við að þrýsta á um að stefna Alþýðubandalagsins "miðaðist við hagsmuni verkalýðsstéttarinnar". Hann talaði annars mest um það að herða þyrfti lausar skrúfur hér og þar í forystu verkalýðshreyfingarinnar og "verkalýðsflokkanna" (Alþýðubandalagi og Alþýðuflokki) til hagsbóta fyrir alþýðu. Hjá Ragnari og öðrum Fylkingartrotskistum kom fram greinlega, að þeir álíta toppmenn ASÍ/BSRB tilheyra verkalýðsstéttinni, en að þeir mættu vera duglegri við að semja, halda fundi o.s. frv. "Stéttasamvinna" í munni Ragnars virtist fyrst og fremst vera stjórnarsamstarf AB/Alþýðuflokks með "auðvaldsflokkunum", þ.e. Framsókn og íhaldi!



Nokkrir fleiri Fylkingarmenn fluttu tölur úr pontu og óðu sama reyk og Ragnar, vældu t.d. heil ósköp út af því að fá ekki sósíalískt hagkerfi í Reykjavíkurborg út á atkvæðin sem Fylkingarmenn og "KFÍ/ML"-félagar höfðu gefið AB í borgarstjórnarkosningunum.

Pétur Tyrfingsson flutti tvær af sínum hvimleiðu æsingarræðum, sem eru jafn innihaldslausar og mærðarrollur Hvítasunnuklerka. Ópin og óhljóðin eru þvílík að Landhelgisgæslan gæti haft góð not af honum í þokulúður á eitthvert varðskipið. Er því hér með komið á framfæri.

"RÓTTÆKI HLUTURINN"

Gunnar sagði að þingmenn AB væru "menn sem ætluðu sér að ota sínum tota" með fylgi verkalýðsins og það væri ekki valkostur. Hins vegar bæri að "styðja hinn róttækasta hluta verkalýðshreyfingarinnar í kosningunum" (þ.e. Fylkinguna og"KFÍ/ML"). Gunnar og sumir fleiri talsmenn "flokksins" biðluðu svo sterkt til trotskista Fylkingarinnar á fundinum, að ókunnir voru í vafa um fyrir hvort framboðið þeir töluðu! Þá kom fram að "flokkurinn" vill að "kaupgjald í landinu fylgi verðbólgunni" og að Alþingi "styðji baráttuna í verkalýðsfélögunum" (!). Annar "KFÍ/ML"-félagi sagði að verkamenn í Dagsbrún vildu ekki koma Guðmundi J. inn á þing, heldur gera hann að "raunverulegum verkalýðsforingja", - og hana nú !

Allir talsmenn "KFÍ/ML" sneyddu vandlega fram hjá því að eyða einu einasta gagnrýnisorði á trotskista Fylkingarinnar og hvorki þeir né nokkrir aðrir minntust svo heitið gæti á utanríkismál á fundinum. Baráttan í Afríku var ekki nefnd, ekki heldur stríðsundirbúningur risaveldanna, ekki ógnanir Sovétríkjanna gagnvart Noregi, ekki baráttan gegn erlendum fjárfestingum á Íslandi, o.s.frv. Fulltrúar "flokksins" forðuðust eins og heitann eldinn að minnast á nokkuð sem a.m.k. Fylkingin gæti verið ósammála að einhverju leyti!

Og hver er niðurstaðan? Er eitthvað af þessum framboðum valkostur fyrir baráttusinnaða kjósendur? Svarið er: NEI ! Hvorki þessir aðilar eða aðrir í kosningunum eru raunverulegir valkostir. Hvers vegna?

1. Enginn framboðsaðili vill sameina verkalýðsstéttina á grundvelli stéttarbaráttu gegn forystuliði verkalýðsforystunnar, sem sumpart tilheyrir sjálfum höfuðandstæðingnum (borgarastéttinni), vegna sétu í stjórnarstólum auðvaldskerfisins (t.d. Eðvarð Sigurðsson, Þórunn Valdemarsdóttir, Ásmundur Stéfánsson, Jón Helgason o.fl.) og sumpart er uppkeypt af auðvaldinu fyrir hluta arðsins af vinnu verkafóldsins (t.d. Guðmundur J.,Karl Stéinar Guðnason, Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir). Árangursrík verkalýðsbarátta til lengri eða skemmri tíma verður ekki rekin á Íslandi fyrr en stefnu og starfsháttum þessa forystuliðs er útrýmt úr verkalýðshreyfingunni.

2. Enginn framboðsaðili ber uppi kjaramálakröfur sem vænlegar eru til að fylkja til baráttu þorra verkafólks, t.d. 150-160 þús. fyrir dagvinnu á mánuði.

3. Enginn heldur á lofti kröfunni um að sprengja í loft upp samflotsform ASÍ í kjarasamningunum, form sem er auðvaldinu í hag en verkalýð til óþurftar, þar sem allt vald verkalýðshreyfingarinnar er dregið saman innan 10-20 manna hóps forystumanna.

4. Enginn heldur á lofti kröfu um baráttu gegn allri heimsvaldastefnu, sérstaklega stríðsbrölti risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

5. Enginn heldur á lofti afdráttarlausri baráttu gegn fyrirætlunum og yfirstandandi fjárfestingum erlendra auðhringa á Íslandi, t.d. Elkem Spiegerverket, Alusuisse, Johns Manville, Norsk Hydro o.fl.

Einingarsamtök kommúnista (marxista-lenínista) eru eina stjórnmálaaflið á Íslandi sem standa einarðlega að baki þessum kröfum og fleirum, og berjast fyrir þeim eftir megni. Þessi barátta er nauðsynlegur liður í baráttunni fyrir sósíalískri valdatöku verkalýðs og bandamanna hans og EIK(m-l) eru vaxtarbroddur þess stjórnmálaafls, kommúnistaflokksins, sem koma mun á Íslandi og leiða dægurbaráttu verkalýðs og alþýðu og byltingarbaráttuna alla.

EIK(m-l) býður ekki fram að þessu sinni og því er valkostur baráttufúss fólks einn og aðeins einn: **AÐ SKILA KJÖRSEÐLINUM HREINUM OG AUÐUM !**

# „Vopn frú Carrar":

# Áhrifamikil sýning

Þjóðleikhúsið hefur undanfarið sýnt tvo einþáttunga í Leikhúskjallaranum. "Þeir riðu til sjávar" eftir írska skáldið John Millington Synge og "Vopn frú Carrar" eftir öreigaskáldið og baráttumanninn Bertholt Brecht Í leikskrá segir svo um þetta verk Brechts: "Vopn frú Carrar er eitt þeirra verka eða leikþátta, sem Brecht semur með beinni skírskotun til atburða samtíðar sinnar. Hann hafði þá nýlokið verkinu Ótti og eymd þriðja ríkisins, leikþáttum um ástandið í Þýskalandi nasismans. Vopn frú Carrar er framlag hans til borgarastyrjaldarinnar á Spáni. Hann velur þá leið að bregða upp mynd fárra einstaklinga og þá einkum fiskimannskonunnar Teresu Carrar, sem í lengstu lög reynir að halda hlutleysi sínu og forðast að taka afstöðu í pólitískum átökum þeim sem eiga sér stað í kring um hana. Maður hennar hefur fallið í bardaga gegn mönnum Francos og hún reynir að forða því að sonur hennar fari sömu leið. En áður en yfir lýkur verða þeir atburðir, að hún getur ekki lengur setið aðgerðalaus. Maðurinn verður að taka afstöðu: Þeir sem ekki eru með okkur, eru á móti okkur, segir bróðir Teresu. Leikritið er hvatning, til dáða, skýlaus baráttuhvatning".

Satt er það, hvass er pólitíski broddurinn í verkinu og boðskapurinn er skýr og miskunnarlaus.

Það að ætla að sitja aðgerðarlaus og afstöðulaus og horfa upp á stéttarbræður og -systur berjast liðfá við öflugan andstæðing, auðvaldið og heimsvaldastefnuna, er í raun liðveisla við afturhaldið. Fyrr en síðar lendum við öll í sömu aðstöðu og frú Carrar: að bókstaflega verða að taka afstöðu og ganga til liðs við baráttusveitirnar í fremstu víglínu verkalýðsbaráttunnar eða láta troða á okkur að öðrum kosti.

Sýningin í Þjóðleikhúsinu er geysilega áhrifamikil og vel unnin af aðstandendum hennar. Eiga þeir þakkir skyldar fyrir framtakið.

Bríet Héðinsdóttir er þýðandi verksins og leikur jafnframt aðalhlutverkið, frú Carrar. Túlkun hennar er frábær og eftirminnileg. Önnur stór hlutverk hafa Sigurður Sigurjónsson og Bjarni Steingrímsson og gera þeim mjög góð skil. Sama má segja um alla er fram komu, en þeir eru alls 14 í stórum og smáum hlutverkum.

Eins og við mátti búast, fékk verkið heldur slæma dóma hjá hinum borgaralegu blekberum sem skrifa leikgagnrýni í dagblöðin. Þeim stóð stuggur af baráttuhvatningu verksins og skildu alls ekki hvers vegna verið væri að "dusta rykið" af þessu verki "sem tæplega á mikið erindi til ísl. leikhúsgesta"! Jú víst á það erindi og það mikið erindi. Blaðið hvetur lesendur eindregið til að bregða sér í Þjóðleikhúsið og sjá þetta verk, en því miður mun sýningum farið að fækka. Enn einu sinni: Takk fyrir áhrifamikla sýningu.



Bertholt Brecht og Martin Anderson Nexö

# Nýtt „Nýsköpunarævintýri frh 8.

sínum snærum forystu fyrir stórum stjórnmálaflokki studdum af verkafólki og mörgu traustu baráttufólki Flokki sem á sterk ítök í verkalýðshreyfingunni og hreyfingunni gegn bandaríska hernum og NATO. Sigurgeir Sigurðsson, bæjarstjóri Sjálfstæðismeirihlutans í bæjarstjórn Seltjarnarness, skrifar í Moggann 1.júní, að vöxtur Alþýðubandalagsins sé hagstæður, þar sem það þýði fyrsta stig í átt að tveggja flokka stjórnmálakerfi á Íslandi (og um leið útilokun "smáflokka"!). Hann segir orðrétt: "Alþýðubandalagið sem við þekkjum í dag er einkennilegt fyrirbæri. Stefnuskrá þess er á margan hátt sambærileg við stefnuskrá okkar sjálfstæðismanna, þeir þurfa að spanna vítt svið og um leið varast öfga til vinstri sbr. öll litlu flokksbrotin sem þar hafa sprottið upp...." Og síðan segir hann að bæði stefna Alþýðubandalagsins (sem hann líkir við breska Verkamannaflokkinn(!)) og stefna Sjálfstæðisflokksins muni rúmast vel "innan anda lýðræðisins og gætu þrifist á Íslandi". "Báðar þessar stefnur vilja vafalaust Ísland frjálst og í samstarfi við vestrænar þjóðir og þar með áframhaldandi aðild að NATO.

Þessi uppstokkun er einföld: Sterkur hægri og miðflokkur Sjálfstæðisflokkur án kreddukenninga, sem fæla frá lýðræðissinnaða frjálshyggjumenn úr röðum verkalýðshreyfingarinnar, Alþýðubandalag, án kreddukenninga um alræði "öreiganna", byltingu "kúgaðra" og fleiri slík, sem ekki eiga heima á Íslandi og hafa aldrei átt. Óraunhæft er að reikna með öðrum flokkum, sem einhverjum teljandi öflum aðeins reikulum hópum tækifærissinna er stöku sinnum skytu upp kollinum þegar þannig viðraði".

Þetta segir oddviti úr Sjálfstæðisflokknum, og á sama tíma s stingur Einar Olgeirsson upp kollinum enn á ný og hvetur til nýs "alþýðubandalags" - samstarfs (og samruna?) Alþýðuflokks og Alþýðubandalags. Jafnframt minnir hann á Nýsköpunarstjórnina sælu og finnst það væntanlega valkostur sem vert er að hugsa um að ganga inn í nýtt "Nýsköpunarævintýri" með Sjálfstæðisflokknum. Sömu hugmynd viðraði Þröstur Ólafsson í síðasta tbl. tímarits Máls og menningar.

Enginn valkostur.

Satt er það, valkostur er það góður fyrir Alþýðubandalagsforystuna og auðvaldið í landinu. En besti valkostur verkalýðs og alþýðu í kosningunum er að skila auðu, aðeins þannig er hægt að sýna fyrirlitningu á eilífu makki endurskoðunarsinna Alþýðubandalagsins við auðvaldið, aðeins þannig er hægt að sýna fyrirlitningu á svikum Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokksins í baráttumálum alþýðu, aðeins þannig er hægt að sýna andúð á arðránskerfi auðvaldsins, sem allir flokkar styðja og styrkja , aðeins þannig er hægt að sýna viljann til að fá á ný raunverulegt forystuafl verkalýðs á Íslandi - marx-lenínískan kommúnistaflokk. Slíkur flokkur mun aldrei gera friðsamlega sambúð við auðvaldið að stefnu sinni, slíkur flokkur mun aldrei gera þingræðisbaráttuna að höfuðstefnu sinni, slíkur flokkur mun aldrei hafa uppi slagorð um að "gera Alþingi að vígi alþýðunnar". Vígi alþýðunnar eru vinnustaðirnir sjálfir og verkalýðsfélögin. Þar mun hinn nýi flokkur eiga sinn höfuðstarfsvettvang og safna verkafólki undir merki stéttabaráttunnar til árásar á auðvaldið og víghreiður svikaranna í forystu borgaralegu verkalýðsflokkanna og forystu verkalýðssamtakanna.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ EIK (m-l) OG OKTÓBER FORLAGIÐ

EIK(m-l) á Akureyri: Þórarinn Hjartarson, Spítalavegi 17.

EIK(m-l) Reykjavík: Óðinsgötu 30. Opið: alla virka daga kl. 5-7, laugardaga kl. 1-3. sími 29212 Pósthólf 5'86.

EIK(m-l) Kaupmannahöfn: Sigrún Ágústsdóttir, Öresundskóllegiet, J-102, Dalslandsgade 8, 2300 Köbenhavn S.

EIK(m-l) Osló: Steinunn Hjartardóttir, Schultsgate 7, Osló 3. Sími 694450, kl.5-8.30.

EIK(m-l) Uppsalir, Svíþjóð: Haraldur Arngrímsson, Flogstavägen 93 F, Uppsala.

.......

EIK(m-l) hefur gíróreikning nr. 12 200-9.

Á öllum þessum stöðum fæst einnig Verkalýðsblaðið og útgáfuefni Október-forlagsins og EIK(ml).



**Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu**

# Formaður KÍM: Höfum ekki fjallað um árásirnar á Kína



Verkalýðsblaðinu barst eftirfarandi bréf:

"Mig langar til að biðja ykkur um að koma eftirfarandi fyrirspurn á framfæri við Kínversk-íslenska menningarfélagið - KÍM:

1. Hefur stjórn KÍM rætt síðustu árás sovéskra landamærahermanna á kínverska alþýðu, og ætlar hún að mótmæla árásinni opinberlega? Mér datt þetta í hug vegna fréttar í síðasta Verkalýðsblaði, og svo sá ég frétt í norska dagblaðinu KLASSEKAMPEN, þar sem norska Kínavinafélagið sendi frá sér harðorð mótmæli.
2. Hefur stjórn KÍM rætt ágreining Kína og Víetnam og er einhvers álits á honum að vænta?

Félagi í KÍM."

SVAR ARNÞÓRS HELGASONAR

Við slógum á þráðinn til Arnþórs Helgasonar, formanns KÍM, og lögðum fyrir hann spurningarnar. Arnþór sagði að ekki hafi verið fjallað sérstaklega um árásirnar á Kína. Það væri fyrst og fremst vegna athugunarleysis og gleymsku, sem orsakaðist kannski af þeirri gömlu hefð í KÍM að ræða ekki sérstaklega um alþjóðamál innan stjórnarinnar. Hins vegar væri ætíð leitast við að upplýsa um slík atriði og afstöðu Kínverja til þeirra á stærri fundum og í málgagni félagsins.

Hvað snertir síðari spurninguna, sem að áliti Arnþórs varðaði miklu alvarlegra mál, væri því til að svara að fréttir hafi ekki borist fyrr en í þessum mánuði, sem örugglega væri byggjandi á, og því hreinlega ekki gefist tími til að ræða það. Arnþór kvaðst álíta að full ástæða væri til að KÍM vekti athygli á þessu máli, og það yrði gert í næsta tbl. af tímariti félagsins, "AUSTRIÐ ER RAUTT".

UPPLÝSINGAR UM DEILURNAR

Arnþór bað okkur að koma á framfæri upplýsingum um deilur Kínverja og Víetnama, sem væru nýjar fréttir, byggðar á tveimur meginheimildum, Fréttastofunni HSINHUA og útvarpsstöðinni Rödd Víetnams. Fer frásögn Arnþórs hér á eftir:

Undanfarnar vikur hafa borist af því spurnir til Vesturlanda að ágreiningur hafi risið milli stjórna Alþýðulýðveldisins Kína og Víetnams. Í miðjum síðasta mánuði sökuðu kínversk yfirvöld víetnömsk stjórnvöld um að kúga kínverska minnihlutann þar og töldu að um 100.000 manns hefði verið vísað úr landi. Í fréttum kínversku fréttastofunnar HSINHUA frá því skömmu fyrir síðustu mánaðarmót segir að straumur flóttafólks sé orðinn svo mikill, að um 1900 til 4000 manns fari um kínverskar landamæraborgir í Kvangsí á hverjum degi. Þá segja kínversk yfirvöld að nýlega hafi það gerst að víetnamskir landamæraverðir hafi skotið á kínverska flóttamenn á leið yfir landamærin til Kína og hafi fjöldi þeirra særst og nokkrir fallið. Kínverska stjórnin hefur harðlega mótmælt meðferðinni á kínverska minnihlutanum í Víetnam og farið fram á að fá að stofna ræðismannsskrifstofur í Hó Chí Mính-borg og víðar til að auðvelda þeim sem vilja að sækja um vegabréfsáritanir. Því hafa Víetnamar hafnað. Þá hafa Kínverjar farið fram á að fá senda farþega skip til að sækja þá sem vilja komast úr landi, og greindi útvarpsstöðin Rödd Víetnams frá því þann 5. þ.m. að beiðnin hefði verið samþykkt. Þó mega skipin aðeins koma til þeirra hafna sem víetnömsk stjórnvöld opnuðu fyrir umferð flóttamanna. Ennfremur hafa stjórnvöld Víetnam sakað Kínverja um að hafa neitað uppástungu um viðræður um lausn vandamála kínverska minnihlutans og jafnframt sagt að þeim væri nær að hjálpa Víetnam við að leysa vandamál þess fjölda Kínverja sem flúið hefði frá Kambódíu til Víetnam, síðan Rauðu khmerarnir komust þar til valda.

Skýringuna á þessu taldi Arnþór ekki einfalda. Mestu máli skipti þó að mikill hluti Kínverja sem búsettir eru í Víetnam hafi fengist við verslun og ýmisskonar þjónustustörf, en Víetnamar gangi nú ötullega fram í því að umbylta efnahagslífi landsins og megi því vera að óvægin stefna stjórnvalda í Víetnam bitni sérstaklega hart á þessu fólki. Enginn vafi sé á því að Víetnamar geri hér alvarlegar villur í stjórnarstefnu sinni við að kveða niður alla starfsemi minnihlutahópa í einu vetfangi.

Arnþór kvaðst að lokum vilja þakka fyrir þessar fyrirspurnir. Þær hefðu "rumskað við persónulegri samvisku sinni", eins og hann orðaði það.

Verkalýðsblaðið mun annars staðar fjallar nánar um deilur Kínverja og Víetnama og afstöðu sína til hennar, en við þökkum Arnþóri fyrir spjallið. Um leið hvetjum við lesendur til að koma til liðs við Kínversk-íslenska menningarfélagið, með því að gerast félagar og taka þátt í starfinu.

# Argentína: Heimsmeistarakeppnin dylur ekki ástandið

Nú stendur heimsmeistarakeppnin í fótbolta yfir í - Argentínu. Þessi atburður leiðir huga fólks að því, hvers konar ástand ríkir í landinu, þar sem keppnin fer fram.

Þessi keppni er kærkomið tækifæri fyrir þá fasísku herforingjastjórn sem þar ríkir. 24. mars 1976 varð valdarán í Argentínu. Herforingjastjórnin sem þá komst til valda er fasísk, og hefur afnumið mörg helstu mannréttindi í landinu. Til að mynda eru verkföll bönnuð í landinu, en þrátt fyrir það, hefur landið logað af verkföllum og mótmælaaðgerðum verkafólks, sem mótmælir þeim sultarlaunum sem það fær, og lélegum aðbúnaði. Mikil verðbólga ríkir í Argentínu eins og víða annarsstaðar í S-Ameríku - hún var 160% á síðasta ári. Afleiðing verkfallana og mótmælaaðgerðanna er sú, að fjöldi fólks hefur verið handtekinn.

Stjórnin fær mikinn stuðning frá Bandaríkjunum, en athyglisvert er, að Sovétríkin styðja hana einnig dyggilega. Valdaráninu 1976 var fagnað í Moskvuútvarpi, skömmu eftir að það átti sér stað. Sovétríkin hafa lagt mesta rækt við Argentínu af öllum löndum S-Ameríku, og þau eru langstærsti útflutningsmarkaður Argentínu.



ARGENTINA 78:
FUSSBALL JA – FOLTER NEIN

Sérstakar sveitir hafa verið þjálfaðar fyrir heimsmeistarakeppnina, og eiga þær að sjá um að berja niður hverja þá mótmælaaðgerð, sem kynni að eiga sér stað. Þær eiga að sjá um að fela hið raunverulega ástand landsins fyrir umheiminum, og halda glanshulunni í kringum keppnina óskertri. Í þeim tilgangi var fjöldi fólks, sem tekið hefur þátt í verkfallsaðgerðum, handtekið. En herforingjaklíkunni tekst aldrei að fela raunveruleikan að fullu, og minnumst þess, þegar við skoðum myndir frá keppninni í dagblöðunum, að þær eru frá landi þar sem alþýðan er kúguð og undirokuð, en snýst einörð til andstöðu.

# 40 þús. verkamenn í verkfall í Brasilíu

Þrátt fyrir að verkföll séu bönnuð í Brasilíu, hófu 40 þús. karlar og konur úr vefnaðar-, járn- og bílaiðnaði verkfall þann 19.maí. Krafist er launahækkana sem nema 15 - 20% til viðbótar loforði stjórnarinnar frá því 1.apríl um 39% hækkun.

Flestir eru enn í verkfalli en um 11 þús. verkamenn við Ford verksmiðjurnar í San Fernando hófu vinnu aftur eftir að hafa neytt atvinnurekendur til samninga.

Eftir að fasísk herforingjastjórn tók völdin í Brasilíu 1964, hefur verkalýðsstéttin og öll alþýða þurft að þola gengdarlausa kúgun. Tveim mánuðum eftir valdaránið voru sett lög, sem bönnuðu verkföll. Í Brasilíu er mikil dýrtíð, og árið 1977 nam verðbólgan þar 44% samkvæmt opinberum tölum.

# Víetnam-Kína: Skipulagðar aðgerðir af hálfu Víetnams

Undanfarna mánuði hefur um 90 þús. kínverjum, búsettum í Víetnam, verið vísað úr landi í Víetnam. Í byrjun ársins 1977, fóru Víetnömsk stjórnvöld fyrst að vísa kínversku fólki, búsettu í landamærahéruðunum, brott, undir því yfirskini að þeir væru að "hreinsa til við landamærin", en nú er svo komið, að þetta nær til kínverskra íbúa um allt Víetnam.

Meirihluti þessa fólks tók virkan þátt í þjóðfrelsisstríðinu í Víetnam á sínum tíma, og hefur tekið þátt í uppbyggingunni eftir stríðið. Nú hefur þetta fólk þurft að þola illa meðferð á leið sinni til Kína, það hefur verið rekið frá eignum sínum, sem það hefur þénað með mikilli vinnu í gegnum árin.

Kínverjar fullyrða, að Víetnömsk yfirvöld hafi dreift sögum meðal víetnama og kínverskra íbúa, m.a. þess efnis, að Kínverjar hyggi á árásir á Víetnam, og að kínversk yfirvöld hafi ráðlagt kínverjum búsettum erlendis að snúa heim o.s.frv. Þetta er gert til þess að æsa fólk upp og skapa tortryggni gagnvart Kínverjum, þannig að auðveldara megi vera að hrekja þá brott. Þetta eru því skipulagðar aðgerðir af hálfu yfirvalda Víetnams.

1955 fóru fram viðræður milli Kínverja og Víetnama um spurninguna um þjóðerni kínverja, sem búsettir voru í Víetnam. Báðir aðilar urðu sammála um að þetta fólk hefði frelsi til að ákveða sjálft til hvaða þjóðernis það teldi sig. 1956 þvingaði Ngo Dinh Diem-stjórnin í Suður-Víetnam kínverska íbúa að gerast Víetnamskir ríkisborgarar. Þessu var harðlega mótmælt af kínverskum stjórnvöldum, og stuttu síðar birti Nahn Dan í Lýðræðisríkinu Víetnam yrirlýsingu um, að "Ngo Dinh Diem-klíkan sé sameiginlegur óvinur kínverskra og víetnamskra íbúa", og lét í ljós stuðning sinn við réttmæt mótmæli Kína.

1965 birti Þjóðfrelsishreyfing Suður-Víetnam "Bréf til kínverskra bræðra og systra í Suður-Víetnam". Þar segir, að "kínversku íbúarnir hafi fullan rétt til að ákveða þjóðerni sitt". Nú síðustu ár hafa Víetnamar gengið á bak orða sinna, og að engu haft réttinn til að ákveða þjóðerni sitt. Kínverskir íbúar hafa verið neyddir til að gerast víetnamskir ríkisborgarar, ella áttu þeir á hættu að missa atvinnuleyfi, vera hærra skáttaðir, og missa önnur réttindi á við Víetnama.

Kínverjar hafa reynt að tala um fyrir Víetnömskum stjórnvöldum, og afstýra þessari óheillavænlegu þróun sem spillir hinni hefðbundnu vináttu þjóðanna tveggja en hefur lítið borið árangur, eins og kunnugt er af fréttum.

Kremlherrarnir í Moskvu hafa nú blandað sér inn í erjurnar milli Kínverja og Víetnama. Í hinum daglegu áróðurs-útsendingum sínum til Asíu taka þeir afstöðu með Víetnömum, og kalla þá 25 millj. kínverja, sem búsettir eru erlendis "fimmtu herdeildina". "Með skipun frá Peking, geta þeir skapað ólgu í því landi sem þeir eru búsettir í". Á þennan hátt vilja Sovétríkin gera kínverja erlendis tortryggilega, og sverta Alþýðulýðveldið Kína í augum annarra þjóða. Sovétríkin skirrast ein einskins til að sá sundrungu meðal þjóða Asíu og fela sína heimsvaldasinnuðu hagsmunastefnu í Asíu.




Kínverjar, bæði í Kína og Víetnam, syrgðu lát Hó Chí Mínhs.

# Mótmælastaða Palestínunefndarinnar

Þann 30.maí síðastliðinn efndi Palestínunefndin á Íslandi til mótmælastöðu fyrir utan Hótel Sögu. Tilefnið var koma ísraelska sendiherrans til Íslands sem hélt íslenskum stuðningsmönnum síonismans veislu á Hótel Sögu þennan sama dag. Við mótmælastöðuna voru haldin stutt ávörp og dreifiriti dreift.

Í ávarpi Palestínunefndarinnar sagði m.a.:

"Við erum hér saman komin til að mótmæla komu sendiherra Ísraels til Íslands. Koma þessa sendiherra er ekki bara hver annar "diplomatískur" viðburður - nei, markmiðið er að útbreiða síonismann, afsaka glæpa- og hryðjuverkastefnu síonistanna gagnvart Palestínuaröbum og treysta raðir þess íslenska afturhalds, sem snýr blindu auga á útþenslustefnu, árásarstefnu og mannréttindabrotum síonismans... Alþýða heimsins hefur fordæmt þessar síðustu árásir Ísraels inn í S-Líbanon þar sem þúsundir óbreyttra borgara voru drepnir, og síonistar neyðast nú til að senda sporgöngumenn sína til að friða ríkisstjórnir, og kynda undir stuðningsmönnum sínum erlendis... Fasistinn Begin fór til Bandaríkjanna í þessu skyni, Dyan varnarmálaráðherra fór um Norðurlönd, og ísraelski sendiherran kemur til Íslands... Tökum upp baráttuna gegn síonismanum undir vígorðum félaga okkar í röðum Palestínumanna, sem berjast með vopn í hönd gegn allri kúgun og undirokun:

NIÐUR MEÐ SÍONISMANN -
LIFI FRJÁLS PALESTÍNA !
LENGI LIFI PLO !



**David Z. Rivlin, sendiherra** Ísraels og eldheitur boðberi síonismans. Hann var minntur á það að alþjóðleg stuðningshreyfing við baráttu palestínsku þjóðarinnar nær einnig til Íslands.

# Sovétríkin og stríðshættan



EIK(m-l) halda því fram, að enn séu komin fyrirstríðsár, en margir eru efins um að þetta álit styðjist við rök og Alþýðubandalagsmenn og Fylkingin o.fl. segja þetta hreinustu firru. EIK (m-l) segja að samkeppni risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, sé uppspretta styrjaldar og að Sovétríkin séu líklegri upphafsaðili að nýrri heimsstyrjöld. Þetta telja Alþýðubandalagsmenn og Fylkingin enn meiri firru og fjarstæðu. En hverjar eru staðreyndir málsins, á hverju byggja kommúnistar fullyrðingar um stríðshættu? Látum okkur líta á fáein atriði.

AF HVERJU STRÍÐ?

Fyrst þarf að svara spurningunni: Hvað rekur land eða lönd til að hefja heimsstyrjöld?

Sagan sýnir ljóslega, að heimsvaldaríki þróast ójafnt – bæði að efnahagslegum og pólitískum styrk. Þetta er regla sem ræðst af efnahagslögmálum auðmagnsins. Fyrir II. heimsstyrjöldina var Þýskaland í mikilli sókn hvað styrk og ásælni í auðlindir heimsins varðaði. Á sama tíma hnignaði Englandi og Frakklandi. Á meðan heimsstyrjöldin stóð yfir hnignaði öllum þessum heimsveldum, en Bandaríkin hins vegar upplifðu mikla uppgangstíma, ný áhrifasvæði voru unnin og uppsveifla var í efnahagslífinu.

Lenín sýndi fram á þessa þróun heimsvelda. Hann sýndi fram á að á ákveðnum tíma myndi þróast æpandi misræmi á milli annars vegar mikilla áhrifasvæða og hráefna hins hnignandi heimsveldis, og hins vegar skorts hins rísandi heimsveldis á hinu sama. Og Lenín sló föstu, að auðvaldsskipulagið leysti þessar andstæður aðeins á einn hátt: með styrjöld – þar sem landssvæðum jarðarinnar væri á ný skipt upp á milli heimsveldanna í hlutfalli við styrk þeirra. Tvær heimsstyrjaldir hafa fullkomlega sannað kenningu Leníns.

ÚTÞENSLA SOVÉTRÍKJANNA – EFNAHAGSLEG ÞÖRF

Svo sem Lenín greindi, einkennist tímabil heimsvaldastefnunnar af baráttu stærstu heimsveldanna um heimsyfirráð. Nú heyja aðeins 2 ríki þá baráttu, Bandaríkin og Sovétríkin.

Um tíma hefur geisað mikil samkeppni þeirra um áhrifasvæði, en bein átök hafa enn ekki orðið. Hér beinum við sjónum aðallega að Sovét og skoðum nokkra þætti sem stuðla að styrjaldarhættu með þeirra íhlutun. Gagnlegt er að hafa í huga samanburð við fyrri heimsstyrjaldir.

Sovét fjölgar stöðugt áhrifasvæðum sínum. Undanfarna áratugi hafa Bandaríkin tapað landi t.d. í Kína, Kóreu, Kúbu og Indókína, misst áhrif í Indlandi, Eþíópíu, Angóla, auk þess sem staða þeirra í Vestur-Evrópu er veikari en áður. Á sama tíma hafa Sovétríkin haldið traustataki á A-Evrópu (Rúmenía undanskilin) og hafa náð afgerandi efnahagslegum og pólitískum áhrifum t.d. í Indlandi, Bangla Desh, Kúbu, Finnlandi, Eþíópíu, Angóla og róa að sterkari áhrifum í mörgum fleiri löndum Asíu og Afríku. Víða er um að ræða að Sovét vinni landssvæði af Bandaríkjunum og dulbúi útþenslu sína sem "hjálp" í baráttunni gegn bandarískri heimsvaldastefnu. Stærsta og mikilvægasta bitbein risaveldanna er þó V-Evrópa og hugur Kremlverja stendur mjög til áhrifa og valda þar.

Samhliða þessu hafa magnast móthverfur í efnahagskerfi Sovétríkjanna sjálfra, sem ekki verða leystar með friði. Framleiðsla mikilvægra hráefna, s.s. stáls og olíu, og framleiðslugeta iðnaðarins fer í sumum þáttum fram úr framleiðslu og -getu Bandaríkjanna. Samtímis skortir Sovét tæknivæðingu og markaði utan heimalandsins fyrir framleiðsluna. Ítök Bandaríkjanna í markaðskerfi heimsins er einn stærsti þröskuldurinn í vegi þeirra að mörkuðunum. Tiltölulega lítil tæknivæðing veikir samkeppnisaðstöðu fyrir sovéska iðnframleiðslu á heimsmörkuðum (birtist m.a. í lítilli fjölbreytni og oft litlum gæðum). Hluti Sovét í vöruframboði á heimsmarkaði er um 3% (var 2% hjá Hitler fyrir stríð). Það er fyrst og fremst V-Evrópa sem hefur það sem Sovét skortir, markaðinn.

Þannig er enduruppskipting landssvæða og aukið "lífsrými" efnahagsleg nauðsyn fyrir Sovét til að forðast hraðvaxandi kreppu heima fyrir og bjarga samkeppnisaðstöðunni.

SOVÉSKA VÍGVÉLIN

Þar sem Sovétríkin eru efnahagslega veikari en Bandaríkin, treysta þau því meira á herstyrkinn – alveg á sama hátt og Hitlers-Þýskaland:

–Sovét hefur helmingi fjölmennari her en Bandaríkin.

–Sovét hefur 400 fleiri vígvélar sem bera kjarnorkuvopn.

–Í Evrópu eru yfirburðir Varsjárbandalagsins yfir NATO-heri í hlutfallinu 2:1 varðandi fjölda orustuflugvéla og 3:1 varðandi fjölda skriðdreka.

–Sovét hefur stærstu flotastöð heims á Kolaskaga og þá næst stærstu (sennilega) nálægt Leníngrad. Flotinn er uppbyggður sem árásarher: 500 herskip og kafbátar eru á Eystrasalti einu. Um borð eru eldflaugar sem hafa allt að 1200 km flugþol og geta náð til flestra stórborga Evrópu. 1956 átti Sovét enga bátkænu utan 12 mílna landhelgi landsins, en í dag eru stríðsskip landsins á öllum heimshöfunum tilbúin til árása. Árlega er varið 20% meiru til hermála í Sovét en Bandaríkjunum, og fjármagnsveltan þó mun minni í fyrrnefnda ríkinu. Hervæðing efnahagslífsins var einnig eitt mikilvægasta einkennið á þróun Hitlers-Þýskalands fyrir stríð.

SVÆÐISBUNDIN STRÍÐ

Sovétríkin stunda nú þegar svæðisbundin stríð, þar sem friðsamlegar aðferðir duga þeim ekki. Þar birtist aukinn styrkur Sovét gagnvart höfuðkeppinautnum, Bandaríkjunum. Á Krústjof-tímanum lögðu Sovétleiðtogar fram stefnu mikillar samvinnu við Bandaríkin, boðuðu "allsherjar frið og afvopnun" og lögðust fullum fetum gegn þjóðfrelsisbaráttu í 3ja heiminum (t.d. í Kongó, Alsír og Víetnam '56 – '64). Á síðari árum hafa þeir hins vegar tekið að kynda undir stríðum í 3ja heiminum, t.d. með því að styðja einstaka frelsishreyfingar með ákveðnum skilyrðum, með því að etja saman frelsishreyfingum og koma ár sinni þannig vel fyrir borð (dæmi: Angóla). Sovétríkin eru í dag umsvifamesti vopnakaupmaður heims og selur vopn út um heim allan.

Áður voru Bandaríkin óumeilanlega þjóðaböðull nr. 1, en á a.m.k. síðustu 3 árum hafa Sovétríkin tyllt sér í þetta vafasama heiðurssæti, og hafa blandað sér í og staðið fyrir afturhaldssömum hernaði gegn kúguðum þjóðum. Dæmi um þetta eru m.a. Angóla, Eritrea og nú síðast Zaire.

Uppskiptastríð landssvæða er í raun þegar hafið, en aðeins á jaðarsvæðum heimsmarkaðarins, sem fyrst og fremst hafa hernaðarlega þýðingu (í sama ljósi verður að skoða þrýsting og ásælni Sovét á Svalbarða og í Barentshafi). Þetta minnir enn á "jaðarstríð" fasistaríkjanna, sem var undanfari II. heimsstyrjaldarinnar (Kína 1931, Eþíópía 1935, Spánn 1936).

FALSRÁÐSTEFNUR UM FRIÐ

Nú er haldið uppi miklu friðarhjali og "friðarráðstefnur" eru haldnar ein á eftir annari. Munchen-sáttmálinn sem Hitler beitti sér fyrir 1938, var kallaður "trygging fyrir friði á okkar tímum", og örskömmu fyrir innrásina í Danmörku sagði Hitler, að Danmörk og Noregur yrðu aldrei dregin inn í styrjöld. "Friðarráðstefnur" í Helsinki og Belgrad og SALT-ráðstefnurnar, sem við verðum vitni að, eru sams konar "trygging fyrir friði". Á sama tíma og heimsvaldasinnarnir tala um frið, vígbúast þeir meir en nokkru sinni!

Það er heldur ekki tilviljun að Brésnef er helsti hvatamaður að slíkum "friðarráðstefnum". Sagan sýnir að þeir sem hvað hraðast og mest hafa búist til styrjaldar, hafa látið hæst um nauðsyn friðar. Samtímis friðarhjali Sovétleiðtoganna er nú í Sovét samviskusamlega stundaður heilaþvottur, uppeldi í þjóðrembingi og áróður fyrir því að "réttlát árásarstríð gegn hinum árásargjörnu auðvaldsríkjum" geti orðið óhjákvæmileg.

Það er sem sagt ekki rétt sem borgaralegir stjórnmálaspekingar og endurskoðunarsinnar Alþýðubandalags og Fylkingar halda fram, að nú "slaki risaveldin á og tryggi heimsfrið". Og af risaveldunum tveimur eru það líklega Sovétríkin sem munu hefja III. heimsstyrjöldina. Brésnef er því Hitler okkar tíma. Eru það mikil umskipti frá tíma Leníns og Stalíns, þegar Sovétríkin voru sósíalísk og óvinnandi vígi verkalýðs og alþýðu og forystuaflið í baráttunni gegn helstefnu Hitlers-Þýskalands.

En staðreyndirnar liggja á borðinu: í dag eru Sovétríkin fasískt auðvaldsríki og berst um heimsyfirráðin við Bandaríkin. Átök heimsvaldarisanna munu leiða af sér styrjöld og við verðum að horfast í augu við þær staðreyndir og haga baráttunni í samræmi við þær.

# Greinaflokkur um efnahagsmál - 6. grein

# Ríkisrekstur - Ríkisvald

Kommúnistar líta öðrum augum á ríkisvaldið en borgaralegir flokkar og "hagfræðingar". Kommúnísk greining á ríkisvaldinu byggir fyrst og fremst á ritum Marx og Leníns. Ef við drögum saman meginatriði þessarar greiningar fáum við eftirfarandi útkomu:

1. Ríkisvaldið varð til um leið og stéttskipting varð til.
2. Ríkisvaldið er kúgunartæki ríkjandi stéttar.
3. Mikilvægasti hluti ríkisvaldsins er því vopnaður hluti þess, þ.e. her, lögregla, fangelsi o.s.frv.
4. Jafnvel allra lýðræðislegustu auðvaldsríki eru í rauninni ríki undir alræði borgarastéttarinnar yfir verkalýðsstéttinni og öllu vinnandi alþýðufólki.
5. Í sósíalísku landi þar sem ríkir alræði öreiga kúgar ríkisvaldið þann minnihluta sem óskar eftir að endurskapa arðránssamfélagið. Alræði öreiganna tryggir því raunverulegt lýðræði fyrir verkalýðsstéttina og alla alþýðu, þ.e. meirihlutann.
6. Í kommúnísku samfélagi þar sem engar stéttir verða verður heldur ekkert ríkisvald.

RÍKISREKSTUR

Ríkisrekstur getur því bæði verið sósíalískur og kapítalískur. Í auðvaldsríki er hann kapítalískur, í sósíalísku ríki sósíalískur. Glamuryrði endurskoðunarsinna allra tíma um að auka beri "félagslegan rekstur" fyrirtækja er því ekkert annað en krafa um kapítalískan rekstur með öðru formi. Innihaldslega er enginn munur á ríkisrekstri og einkarekstri í auðvaldsríki og því er rangt að kalla ríkisrekstur "félagslegan".

Ríkisrekstur er aðeins liður í þróun auðvaldsskipulagsins, sem við getum skipt niður í þrjú meginþróunarstig: einkarekstur – einokun – ríkiseinokun. Ríkiseinokun stendur næst því stigi, sem kalla má byltingarstig, – það stig auðvaldsþróunarinnar þegar hún kollveltir sjálfri sér og verkalýðsstéttin tekur völdin. Það er þess vegna sem t.d. Sovétríkin völdu við gagnbyltinguna 1956 skipulag ríkiseinokunar. Það var vandaminnsta og besta leiðin til að breyta eignarforminu á framleiðslutækjunum án þess að mikið bæri á því á yfirborðinu.

ENDURSKOÐUNARSINNAR STYÐJA AUÐVALDIÐ

Meðal þeirra sem styðja borgaralegt ríkisvald eru flokkar sósíaldemókrata og endurskoðunarsinna. Þessir flokkar líta ekki á ríkisvaldið sem tæki ríkjandi stéttar, heldur sem einhvers konar fyrirbæri ofan stéttum. Til að ná völdum í þjóðfélaginu þurfi verkalýðsstéttin því aðeins að "ná taki á" þessu stéttlausa ríkisvaldi í kosningum.

Staðreyndin er hins vegar ljóslega sú, að með þessu tryggja þeir einn anga íslensks auðvalds fyrir árásum verkalýðsstéttarinnar. Nái þessir flokkar "völdum" á þann hátt sem þeir greina, er auðstéttin jafn mikið við völd og áður og stýrir aðeins ríkisvaldinu í gegnum þá. Endurskoðunarsinnar og sósíaldemókratar berjast því ekki gegn auðvaldsskipulaginu, heldur keppa þeir við aðra borgaraflokka um stjórnun og skipulagningu þess. Stefna þeirra er umbótastefna í þágu auðvaldsins.

BURT MEÐ RÍKISVALD AUÐSINS – SÓSIALÍSKT ÍSLAND!

Eina leiðin til að verkalýðsstétt nái völdum yfir ríkisvaldinu er að ryðja úr vegi þeirri stétt sem nú hefur völd. Þetta gerist aðeins með sósíalískri byltingu, þar sem ríkisvaldið er allt brotið til grunna og byggt upp í nýrri mynd – sem ríkisvald hinnar drottnandi verkalýðsstéttar til að kúga og berjast gegn öllum leifum auðstéttarinnar. Loks þegar sú barátta er til lykta leidd, rennur upp samfélag frjálsra manna, þar sem arðrán manns á manni þekkist ekki, og ríkisvaldið verður óþarft. Þetta samfélag heitir kommúnískt þjóðfélag.

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK (m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Posthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212




## Listin í þágu alþýðu

# Velheppnaðir tónleikar

Þann 27.maí voru haldnir tónleikar í Félagsstofnun stúdenta undir kjörorðunum "Listin í þágu alþýðunnar". Aðstandendur þeirra var Kór Alþýðumenningar og kom hann þar fram ásamt mörgum fleirum. Tónlistin sem flutt var, þjónaði yfirleitt baráttu alþýðu fyrir betri kjörum og réttindum, gegn auðvaldi og heimsvaldastefnu og fyrir sósíalisma. En einnig var þar flutt tónlist sem ekki þjónaði þessu markmiði. Fjölmargt fólk sótti tónleikana og undirtektir voru góðar. Skipulagning þeirra var hnökralítil og í alla staði var þakkarvert að efnt skyldi til slíkrar samkomu. Mætti það vera upphafið að meiru slíku.

En lítum nánar á dagskrána:

Kór Alþýðumenningar kom fram í tvígang og söng mörg góð baráttulög, flest þeirra hefur kórinn flutt við önnur tækifæri en þau eru jafn góð fyrir því. Flutningur á tónlistinni var óöruggur á köflum og einhvern veginn virðist sem kórinn sé dálítið þreyttur og staðnaður. Það vantar einhvern veginn meiri "brodd" í sönginn og undirleikinn!

Nafnlausi sönghópurinn kom líka fram í tvígang. Hann er myndaður af fólki úr Kór Alþýðumenningar og fleirum og hefur starfað mjög stutt. Samt kom hann verulega á óvart og var með eftirminnilegasta framlagið á tónleikunum. Saman fór góð tónlist, hressilegur og öruggur söngur og skemmtilegur undirleikur. Sérstaklega er eftirminnilegt lag frá Írlandi, þar sem "írsk stemning" blómstraði í flutningi hópsins. Sem sagt: gott!

Hljómsveitin Melchior flutti lög af væntanlegri hljómplötu. Textar við tvö þeirra fjalla um Kanaskransölu Alfreðs við Grensásveg (Sölunefnd Varnarliðseigna) og járnblendibræðsluna á Grundartanga. Báðum er textunum líklega ætlað að vera "róttæk innlegg" í þjóðfélagsumræðuna, en hvorugur stendur undir því. Innihald þeirra er flatneskjulegt og langsótt orðskrúð, og illa ort að auki. Í járnblenditextanum er gert gys að alþýðufólki.



Tónlistin var þokkaleg og flutningurinn góður, en framlag Melchior flokkast ekki undir "List í þágu alþýðu" og gæti þess vegna fengið gott klapp inni á Heimdallarfundi. (Melchior spiluðu enda bæði á framboðsfundum Sjálfstæðisflokksins og Alþýðubandalagsins fyrir borgarstjórnarkosningarnar!).

Hjördís Bergsdóttir söng nokkur ljóð eftir "þjóðskáldin" við eigin lög. Góðan og gamlan alþýðlegan kveðskap við áheyrileg lög. Ekki flokkast framlagið samt til þeirrar tegundar listar sem hvetur til baráttu verkalýðs og alþýðu gegn auðvaldi og afturhaldi - hliðstætt t.d. innihaldinu í söngtextum Kórs Alþýðumenningar og Nafnlausa sönghópsins. Flutningur Hjördísar var hins vegar góður, en hann krefst fullrar athygli áheyrandans til að allt komist til skila og lög hennar og söngstíll eru ekki fallin til að æsa upp baráttuviljann í áheyrandanum; a.m.k. þau lög sem hún flutti í Félagsstofnun.

Þorvaldur Árnason flutti þrjú lög og ljóð, a.m.k. hið síðasta eftir hann sjálfan. Það var við ljóðið "Til félaga Ermíasar í Eritreu" eftir Guðmund Sæmundsson, sem birst hefur í Verkalýðsblaðinu. Gott lag við gott ljóð og nú er um að gera að kenna sem flestum hvoru tveggja til að allir geti sungið alþýðunni í Eritreu til stuðnings. Ekki veitir af, því þessa dagana gera flugsveitir fasistastjórnar Mengistus í Eþíópíu harðari loftárásir á Eritreu en nokkru sinni og kúbanskir, sovéskir og suður-Jemenískir "ráðgjafar" taka þátt í baráttunni með Mengistu. Alþýðufólk og baráttusinnar eritreönsku þjóðarinnar eru vegnir með sovéskum vígvélum. Þorvaldur flutti einnig lag við snjallan texta um atvinnuíþróttamennsku og skilaði sínu framlagi vel.

Pétur J.Guðlaugsson flutti lag eftir sjálfan sig við ljóð Guðmundar Sæmundssonar um baráttu alþýðunnar í Asaníu (Suður-Afríku) með frelsishreyfingunni Pan Africanist Congress - PAC - í broddi fylkingar. Bæði lag, ljóð og flutningur Péturs vöktu hrifningu áheyrenda, en því miður var ekki hægt að koma magnarakerfinu við til að textinn kæmist fullkomlega til skila til allra í salnum og er það miður.

Í heild tókust tónleikarnir vel, voru sannanlega skemmtileg tilbreyting og stóðu að flestu leyti undir nafninu "Listin í þágu alþýðunnar". Það sem ef til vill vakti mesta furðu og jafnframt ánægju var það, að greinilegt er að sköpun baráttulistar, listar í þágu alþýðu, vex nú mjög fiskur um hrygg, sérstaklega er athyglisvert hve margir nýir og frábærir söngtextar og ljóð hafa komið fram upp á síðkastið. Þá er ekki síður ánægjulegt hversu baráttusinnuðum tónskáldum og flytjendum baráttutónlistar fjölgar ört. Mikilvægt er að allt haldist í hendur til að skapa alþýðulist: innihald, form og túlkun. Sé svo er listin mikilvægt og árangursríkt vopn í baráttu alþýðu. Eða eins og Mao Tsetung orðar það:

"Það sem vér krefjumst er eining stjórnmála og listar, innihalds og forms, eining pólitísks byltingarinntaks og eins fullkomins listræns forms og kostur er. Verk á listasviði eru máttlaus, hversu framsæknar stjórnmálaskoðanir sem þau flytja, ef þau skortir listrænt gildi. Þess vegna erum vér jafnmikið á móti verkum með rangri pólitískri afstöðu og tilhneigingu til "veggauglýsinga og vígorðastíls", er hefur rétt pólitísk sjónarmið, en vantar það áhrifavald, sem listinni er gefið".

# Akureyri: Þora ekki í kappræður

Á dögunum sendi Akureyrardeild Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) Alþýðubandalaginu á Akureyri bréf og bauð því til kappræðna á opnum fundi. Á fundinum skyldi ræða afstöðu EIK(m-l) og Alþýðubandalagsins til kosninganna og einnig um leið Íslands til sósíalismans.

Einhverjir kynnu að halda að Alþýðubandalagsmenn gripu slík tækifæri fegins hendi, til að geta útbreitt stefnu sína og varið. En AB-menn á Akureyri létu standa á svari og var þá leitað beint til eins af talsmönnum þess. Svarið sem fékkst var stutt og laggott: "Við önsum þessu ekki"!

Þar með rann þessi fyrirhugaði fundur út í sandinn, en geta má þess að þetta er ekki í fyrsta sinn sem Alþýðubandalagið á Akureyri þorir ekki að mæta talsmönnum EIK(m-l) í bænum á opnum kappræðufundi. Samtökin hafa áður skorað á AB-menn í kappræður um Sovétríkin í nútíð og fortíð. Þeir voru að vísu fúsir til að ræða málin, en alls ekki á opnum fundi. Þeir vildu að fulltrúar beggja aðila ræddust við á lokuðum fundum. Þessu "boði" hafnaði Akureyrardeildin að sjálfsögðu.




## Vangaveltur um þróun Alþýðubandalagsins og fleira

# Nýtt "Nýsköpunarævintýri" framundan?

"Nú skiptir samstarf beggja verkalýðsflokkanna öllu máli", segir Einar Olgeirsson í samtali við Alþýðublaðið 31. maí, en þar er hann að svara spurningum um mat á sveitastjórnakosningunum. Greinilegt er að Einar er enn einu sinni í þeim hugleiðingum að útvíkka beri pólitískan grundvöll vinstri-krata Alþýðubandalagsins, svo að hægri-kratar Alþýðuflokksins geti með betri samvisku gengið til fulls í sæng með þeim.

Einar segir: "Þessir tveir flokkar eru kosnir af sama fólkinu og þessu fólki má ekki bregðast. Í Nýsköpunarstjórninni og fyrri vinstri stjórninni er ekki gott að segja hve miklu hefði mátt koma til leiðar, ef slíkt samstarf hefði tekist og Sjálfstæðisflokki og Framsókn ekki tekist að valda sundrungu þeirra í milli. Undir þessu er framhald sigursins komið".

Einar Olgeirsson er guðfaðir endurskoðunarstefnunnar á Íslandi. Hann var leiðandi fyrir hægri stefnu og kratisma í Kommúnistaflokki Íslands og var fremstur í flokki þeirra félaga flokksins sem leggja vildu hann niður og stofna til bandalags við vinstrikrata þáverandi Alþýðuflokks á grundvelli hreinræktaðrar sósíaldemókratískrar stefnu. Þannig varð Sósíalistaflokkurinn - sameiningarflokkur alþýðu til og



Einar Olgeirsson:

„Nú skiptir samstarf beggja verkalýðsflokkanna öllu máli

„Þetta var stórkostlegur sigur beggja verkalýðsflokkanna og nú ríður á að þeir kunni að standa saman", sagði Einar Olgeirsson, þegar blaðið hafði tal af honum í gær.

„Þeir hafa getað starfað saman í verkalýðshreyfingunni og hví ekki í bæjar- og sveitarstjórnarmálum einnig? Samstarf er lífsspursmál nú, þessir flokkar njóta nú 40% af fylginu í kaupstöðum og kauptúnum og fyrr en þeir taka höndum saman, verður ekki rekin góð pólitík. Gegn þessu má hvorki standa metnaður né ofstæki. Þessir tveir flokkar eru kosnir af sama fólkinu og þessu fólki má ekki bregðast. Í Nýsköpunarstjórninni og fyrri vinstri stjórninni er ekki gott að segja hve miklu hefði mátt koma til leiðar, ef slíkt samstarf hefði tekizt og Sjálfstæðisflokki og Framsókn ekki tekizt að valda sundrungu þeirra í milli. Undir þessu er framhald sigursins komið".

Einar var helsti forystumaður hans ásamt Brynjólfi Bjarnasyni. Þeir félagarnir leiddu síðan flokkinn til samstarfs við Sjálfstæðisflokkinn, pólitískt forystuafl hinnar ungu og nýríku borgarastéttar á Íslandi í Nýsköpunarstjórninni. Þar tóku "fulltrúar alþýðunnar" - ráðherrar Sósíalistaflokksins - fullan þátt í því að útdeila stríðsgróðanum, sem féll í skaut ísl. auðvaldinu, til útgerðarmanna, verslunar- og iðnaðarauðherra. Þessa augljósu stéttasamvinnu og makk við auðvaldið kallar Einar á hátíðisstundum "einn merkasta þátt í sögu verkalýðsbaráttunnar" og er stoltur af sínum hlut!

En hann lét ekki þar við sitja. Nokkrum árum síðar beitti hann sér enn fyrir makki forystu Sósíalistaflokksins - og rétt einu sinni við vinstri-krata úr Alþýðuflokknum. Var gert bandalag við nokkra Alþýðuflokkskrata og það kallað "Alþýðubandalag". Bandalag þetta bauð fram í þingkosningunum 1956 og trónuðu efstir á lista þess í Reykjavík þeir Einar Olgeirsson og Hannibal Valdimarsson. Í kosningabaráttunni það ár lögðu Sósíalistaflokkurinn / Alþýðubandalagið endanlega á hilluna öll slagorð um sósíalisma, fjöldabaráttu og nauðsyn sterks forystuafls, en áður voru slík slagorð notuð til að skreyta Sósíalistaflokkinn og gera hann "rauðan og róttækan". 1956 eru slagorð Sósíalistaflokksins og Alþýðubandalagsins kunnuglegri þeim sem fylgjast með kosningabaráttu Alþýðubandalags og Alþýðuflokks í dag og ganga öll út á þingræðisbaráttu og atkvæðasnap. 1971 var eitt helsta kjörorð Alþýðubandalagsins: "Kjarabæturnar verða taldar upp úr kjörkössunum". 1956 sagði Þjóðviljinn um kröfugöngu verkalýðsfélaganna 1.maí í Reykjavík: "Aðalkjörorð dagsins er að gera kjörseðilinn að vopni í hagsmunabaráttunni og tryggja þannig verkalýðssamtökunum það marga fulltrúa á Alþingi að kjörin verði ekki eftirleiðis rýrð með ráðstöfunum þings og stjórnvalda". Kannast nokkur við sönginn?!

Sjálfan kosningadaginn, 24. maí 1956, birtir Þjóðviljinn svo á forsíðu heljarstóra mynd af Alþingishúsinu og fyrir ofan stendur með styrjaldarletri: GERUM ALÞINGI AÐ VÍGI ALÞÝÐUNNAR. Hvorki meira né minna!

"Hægri, vinstri".

En Einars þáttur Olgeirssonar er ekki á enda. Hann berst fyrir því að enn sé haldið áfram að sigla fyrir hægri vindum og útþynna pólitíska stefnu "sósíalistanna" enn meir - var hún þó orðin nógu borgaraleg og kratísk fyrir! Hann vildi leggja Sósíalistaflokkinn niður og gera Alþýðubandalagið að formlegum stjórnmálaflokki - "til að ná sem breiðastri samstöðu". 1968 varð þetta að veruleika og Alþýðubandalagið varð formlegur flokkur. Síðan hefur hægri þróun þess enn aukist hægt og bítandi, en gagnvart mörgu baráttufúsu fólki hefur foringjum AB tekist furðu vel að halda andliti hins "Sósíalíska flokks". Oddvitar auðvaldsins eru þó fyllilega meðvitaðir um hvert eðli Alþýðubandalagsins er, og um það hversu mikið gagn ísl. borgarastétt getur haft af áhrifum þess og starfi.

Það er ekki lítið púður í því fyrir borgarastéttina að hafa á


frh. á bls. 5